veitti upggngur; var þá bæði landz-fólkit rænt ok sumt drepit, sumt var handtekit ok bundit, flutt svá til skipa, en alt flýði, þat er því kom við, ok varð engi viðstaða; gerði Óláfr konungr þar it mesta hervirki. En er Óláfr konungr var á Sjólandi, þá spurði hann þau tíðendi, at Ǫnundr konungr Óláfsson hafði úti leiðangr ok fór með her mikinn austan fyrir Skáni ok herjaði hann þar. Varð þá bert um ráðagǫrð þá, er þeir Óláfr konungr ok Ǫnundr konungr hǫfðu haft í Elfinni, þá er þeir gerðu samband sitt ok vináttu, at þeir skyldu báðir veita mótstǫðu Knúti konungi. Fór Ǫnundr konungr til þess, er hann fann Óláf konung, mág sinn. En er þeir hittusk, þá gera þeir þat bert, bæði fyrir sínu liði ok landz-fólkinu, at
O 160 þeir ætla undir sik at leggja Danmǫrk ok beiða sér viðrtǫku af landz-mǫnnum. En þat var, sem víða finnask dœmi til, at þá er landz-fólkit verðr fyrir hernaði ok fær eigi styrk til viðrtǫku, þá játa flestir ǫllum þeim álǫgum, er sér kaupa frið í. Varð þá svá, at margir menn ganga til handa þeim konungum
H 263 ok játuðu þeim hlýðni; lǫgðu þeir víða landit undir sik, þar er þeir fóru, en herjuðu at ǫðrum kosti. Sigvatr skáld getr þessa hernaðar í drápu þeiri, er hann orti um Knút konung inn ríka:

---

1. veitti upggngur: *ul. J2.* bæði: *ul. J2.* -fólkit: sumt *tf. J2.* rænt: *sål. J2;* hrætt *K, 18, 70.* ok: enn *J2.* 2. var: *ul. J2.* bundit—svá: flutt bundit *J2.* 4. -staða: -taca *J2.* 5. Sjó-: Sia- *J2.* 7. úti leiðangr: *omv. J2.* 8. hann: *ul. J2.* 8—12. Varð—kgi: *ul. J2.* 9. þeir: *sål. 18, 70; mgl. K.* 12. til þess: þar til *J2.* 16. -mǫnnum: folkino *J2.* þat: þar *J2.* 17. at—verðr: er menn verþa *J2.* 18. fær: hafa *J2.* 19. ǫllum: *ul. J2.* kaupa—í: mega friþinn með kapa *J2.* 19—20. Varð—ganga: gengu þa margir *J2.* 20. kgum: *med art. J2.* 21. víða landit: land *J2 (*land *J3).* 24. kg: *ul. J2.*

90. *Knútr vas und himnum;*
hykk ætt at frétt
Haralds í her
hug vel duga;
lét lýgǫtu
lið suðr ór Nið
Áleifr, jǫfurr
ársæll, fara.

91. Þurðu norðan
(namsk þat) með gram
til slétts svalir
Silunds kilir;
en með annan
Ǫnundr Dǫnum
á hendr at há
her sœnskan ferr.

## K. 146. Frá Knúti konungi. U 416

*[ÓH (Fms.) k. 142, (Flat.) k. 208; ÓH (49) k. 64.]*

Knútr konungr hafði spurt vestr til Englandz, at 1027
Óláfr Nóregs-konungr hafði leiðangr úti, svá ok þat, H 264
at hann fór með liði því til Danmerkr, ok þar var ófriðr í ríki hans. Tók þá Knútr liði at samna; drósk þar brátt saman herr mikill ok fjǫlði skipa. Var Hákon jarl annarr hǫfuðs-maðr fyrir því liði. Sigvatr skáld kom þat sumar til Englandz vestan ór Rúðu af Vallandi ok sá maðr með honum, er Bergr hét. Þeir hǫfðu þangat farit kaupferð it fyrra sumar. Sigvatr orti flokk þann, er kallaðr var Vestrfararvísur, ok er þetta uphaf:

---

1—8[a]. **90. vísa.** 1. himnum: itrum *J2.* 2. hykk: hygg ek *alle.* 3. Haralds: haʀ *J2.* 5. lý-: lyr *J2.* 6. Nið: niðr *K, 18, 70.* 7. Áleifr: Olafr *K;* Oľ *J2.*

1—8[b]. **91. vísa.** 4. Silunds: silunz *K;* sælundz *J2.*

9. *Overskr. fra 18. J2; mgl. K, 70.* 10. kgr: enn riki *J2.* vestr—Englandz: *ul. J2.* 11. Nóregs: *ul. J2.* 11—12. hafði—því: var kominn með her sinn *J2.* 12—13. þar—hans: at þar i riki hans var ufriðr micill *J2.* 13. Knútr: konungr *tf. J2.* samna: oc *tf. J2.* 14. þar: honum *J2.* saman: *ul. J2.* herr mikill: *omv. J2.* 15. því liði: her þeim *J2.* 17—351[6]. sá—kg: oc for þegar a fund Knuts konungs *J2.*

92. Bergr, hǫfum minnzk, hvé, margan
morgun Rúðu-borgar,
bǫrð létk í fǫr fyrða
fest við arm enn vestra.

En er Sigvatr kom til Englandz, þá fór hann þegar til fundar við Knút konung ok vildi beiða sér orlofs at fara til Nóregs. Knútr konungr hafði sett bann fyrir kaupskip ǫll, fyrr en hann hefði búit her sinn. En er Sigvatr kom til hans, þá gekk hann til herbergis þess, er konungr var inni; þá var herbergit læst, ok stóð hann lengi úti; en er hann hitti konung, þá fekk hann lof, sem hann beiddi; þá kvað hann:

93. Útan varðk, áðr Jóta
annspilli fekk stillis,
(meld sák hús fyr hǫldi)
húsdyrr fyrir spyrjask;
en ørendi óru
ǫ́ttungr í sal knátti
Gorms (berk opt á armi
járnstúkur) vel lúka.

En er Sigvatr varð þess varr, at Knútr konungr býr herferð á hendr Óláfi konungi, ok hann vissi, hversu mikinn styrk Knútr konungr hafði, þá kvað Sigvatr:

---

1—4. **92. vísa.** 3. bǫrð: *sål. K, 18, 70.* létk: let ek *alle.* 4. enn: inn *K.*

7. Nóregs: enn *tf. J2.* sett bann: farbann sett *J2.* 8. kaupskip ǫll: *omv. J2.* fyrr en: aðr *J2.* hefði: hefir *J2* (hafþe *J3*). 9—11. En—úti: *ul. J2.* 11. þá: *ul. J2.* 12. beiddi: villde *J2.* 12—20. þá—lúka: *ul. J2.*

13—20. **93. vísa.** 1. varðk: varð ec *alle.* áðr: aðr enn *alle.* 2. fekk: fecc ec *alle.* 3. meld: mæld *alle.* sák: sa ek *alle.* 7. berk: ber ec *alle.*

21. þess: *ul. J2.* býr: bio *J2.* 22. herferð: heʀ *J2.* hversu: hve *J2.* 23. Kn. kgr: hann *J2.*

94. Ǫrr tegask Áleif gerva, O 161 H 265
alt hefr sás, fjǫrvaltan
(konungs dauða munk kvíða)
Knútr ok Hǫkun, úti;
haldisk vǫrðr, þótt vildit
varla Knútr ok jarlar,
dælla 's fyrst á fjalli
fundr, ef hann sjalfr kømsk undan.

Enn orti Sigvatr fleiri vísur um ferð þeira Knúts ok U 417
Hákonar; þá kvað hann enn:

95. Átti jarl at sætta
alframr bóendr gamla
ok, þeirs optast tóku,
Áleif, at því máli;
þeir hafa fyrr af fári
(framt 's Eiríks kyn) meira,
hǫfðum, keypt, en heiptir,
Hǫkun, saman, mundi.

## K. 147. Frá dreka Knúts konungs.

*[ÓH (Fms.) k. 143, (Flat.) k. 209; Fsk. 100; ÓH (49) k. 64.]*

Knútr inn ríki hafði búit her sinn ór landi, hafði 1027
hann óf liðs ok skip furðuliga stór; hann sjálfr hafði

---

1—8. **94. vísa.** 1. Áleif: Olaf *alle.* gerva: g̊v(f)a *alle.* 2. sás: sa er *alle.* 3. kgs: konung *J2.* munk: mun ec *alle.* 4. Hǫkun: Hac̄ *K;* Hakon *J2.* 5. þótt: þoat *alle.* vildit: virþit *J2.* 7. 's: er *alle.* 8. fundr: *Svb. Egilsson retter dette til* fundi, *hvilket måske er rigtigt.*

9—18. Enn—mundi: *ul. J2.*

11—18. **95. vísa.** 3. þeirs: þeir er *alle.* 4. Áleif: Olaf *alle.* at: *mulig ur. for* af. 6. 's: er *alle.* 8. mundi: myndi *alle.*

19. *Overskr. fra 18; mgl. K, 70;* Knutr konungr kom til Danmerkr *J2. I 325 XI, 1 ses 4 bogstaver (. . ki?), hvormed bl. 3 begynder.* 20—21. búit—hafði: *sål. J2; ul. K, 18, 70, vistnok overspr. i K-mbr.*

dreka þann, er svá var mikill, at lx. var at rúma-tali; váru þar á hǫfuð gullbúin. Hákon jarl hafði annan dreka; var sá fertøgr at rúma-tali; váru þar ok gylt hǫfuð á, en seglin bæði váru stǫfuð ǫll með blá ok rauðu ok grœnu; ǫll váru skipin steind fyrir ofan sæ; allr búnaðr skipanna var inn glæsiligsti; mǫrg ǫnnur skip hǫfðu þeir, stór ok búin vel; þess getr Sigvatr skáld í Knútsdrápu:

H 266 96. *Knútr vas und himnum;*
her austan frá
fríðr fylkis niðr
fráneygr Dana;
skreið vestan -viðr
varr- glæstr, sás bar
út andskota
Aðalráðs þaðan.

97. Ok bǫru í byr
blǫ segl við rǫ
(dýr vas dǫglings fǫr)
drekar landreka;
en, þeir 's kómu,
kilir, vestan, til
of -leið liðu
Limafjarðar brim-.

Svá er sagt, at Knútr konungr helt her þeim inum mikla vestan af Englandi ok kom heilu ǫllu liði sínu til Danmarkar ok lagði til Limafjarðar; var þar fyrir samnaðr mikill landz-manna.

---

1. var mikill: *omv. J2.* 2. váru þar: oc *J2.* hǫfuð: *med art. J2.* 2–5. Hákon—sæ: *ul. J2. 325 XI (?).* 6—7. ǫnnur skip | hǫfðu þeir: *omv. J2 og indsætter* stór *foran* skip. 7. búin: afburðar *tf J2.* þess getr: sva qvað *J2.*

9—16a. **96. vísa.** 1. vas: er *J2.* 2. her . . frá: *sål. ÓH (49);* h'r . . feʀ *J2;* hann . . fram *K, 18, 70. 325 XI* (frá *Fsk. B).* 3. fríðr: frann *J2;* frið *325 XI.* niðr: nið *325 XI.* 6. varr-: *sål. K. Gísl. Nj. 402;* var *alle.* sás: sa er *alle.*

9—16b. **97. vísa.** 5. þeir 's: þeir er *K, 325 XI;* þeir *J2.* 7. of: um *alle.*

17. Knútr: *ul. J2.* 20. samnaðr mikill: *omv. J2.*

## K. 148. Hǫrðaknútr til konungs tekinn.

*[ÓH (Fms.) k. 144, (Flat.) k. 210; Fsk. k. 100, 112, 113, 114, 116; ÓH (49) k. 64.]*

Úlfr jarl Sprakaleggsson hafði settr verit til landvarnar í Danmǫrk, þá er Knútr konungr fór til Englandz; hafði hann selt í hendr Úlfi jarli son sinn, þann er kallaðr var Hǫrðaknútr. Var þat it fyrra sumar, sem áðr er ritit. En jarl segir þegar, at Knútr p. 300
konungr hafði boðit honum þat ørendi at skilnaði U 418
þeira, at hann vildi, at þeir tœki til konungs yfir Dana-veldi Hǫrðaknút, son Knúts konungs — »fekk hann fyrir þá sǫk hann oss í hendr; hefi ek, segir hann, ok margir aðrir hérlandz-menn ok hǫfðingjar kært optliga þat fyrir Knúti konungi, at mǫnnum O 162

---

1. *Overskr. fra 18; mgl. K, 70;* fra Ulfi iarli *J2, 325 XI.* 2. Úlfr: *hermed beg. 4. bl. i AM 325 IX.* Sprakalegsson: svn þorgils sprakalegs *325 IX.* settr verit: *omv. J2, 325 IX.* 4. selt: fengit *325 IX.* í–jarli: honum i hendr *J2.* Ú. jarli: honum *325 XI.* 5. þann: *ul. J2.* þann—Hǫrðaknútr: horða knvt *325 IX.* kallaðr: nefndr *J2.* Var: oc var *325 IX.* þat: *sål. 18;* þar *K, 70.* 5—9. Var—Dana-veldi: enn þegar Knutr for þaðann þa segir Ulfr iarl at hann vill at Danir take til konungs *J2.* 6. sumar: *med art. 325 IX.* sem áðr: sva sem fyʀ *325 IX;* sva sem *skr. 325 XI.* er ritit: var ritat (sagt *IX) 325 XI, IX.* ritit: rit̄ *K.* 6—8. En—þeira: Eɴ er (þeir *tf. 325 XI)* knvtr konungr var i brottv (varv skilðer *325 XI)* þa sagði Vlfr (sva *325 XI)* iarl (landz monnvm *tf. 325 XI) 325 IX, XI.* 8. at(1)—vildi: at knvtr konvngr hefðe þat boðit honom *325 XI.* vildi: vil *325 IX.* tœki: taki *325 IX;* skyllde taka *325 XI.* 9—355$_{13}$. son—hǫfðingjar: *ul. J2.* 9. son—kgs: *ul. 325 IX;* son hans *325 XI.* 10. hann*(1):* knvtr konungr *325 IX.* fyrir—oss: hann os fyri þvi (þa sôk hann *325 XI) 325 IX, XI.* 10—11. segir hann: *ul. 325 XI.* 11. hann: j. *325 IX.* hér- . . . -menn ok: *ul. 325 IX, XI.* 12. kært . . . þat: *omv. 325 XI.* kært—þat: opt kært þetta *325 IX.*

H 267 þykkir þat hér í landi vandi mikill at sitja hér konunglaust, er inum fyrrum konungum Dana þótti þat fullræði, at hafa konungdóm yfir Dana-veldi einu saman; en þá er in fyrri æfi var, réðu þessu ríki margir konungar; en þó gerisk nú þat miklu meira vandmæli en fyrr hefir verit, þvíat vér hǫfum hér til nát í friði at sitja af útlendum hǫfðingjum, en nú spyrjum vér hitt, at Nóregs-konungr ætli at herja á hendr oss, ok er mǫnnum þó grunr á, at Svía-konungr myni ok til þeirar ferðar ráðask; en Knútr konungr er nú á Englandi«. Síðan bar jarl fram bréf ok innsigli Knúts konungs, þau er sǫnnuðu alt þetta, er jarl bar upp. Þetta ørendi studdu margir aðrir hǫfðingjar. Ok af þeira fortǫlum allra saman réð mannfólkit þat af, at taka Hǫrðaknút til konungs, ok var þat gǫrt á því sama þingi. En í þessi ráðagǫrð hafði verit uphafs-maðr Emma drótning; hafði hon látit gera bréf þessi ok látit innsigla; hafði hon með brǫgðum nát innsigli konungs,

1. þat: *ul. 325 IX.* hér*(2)*: *ul. 325 XI.* 1–2. hér*(2)*— er: *konung*lavs*ir (sål. også 325 XI)* her. E*n* *325 IX.* 2. er: þotti *325 XI og ul. det følg.* kgm Dana: *omv. 325 IX, XI.* 3. hafa—yfir: raða *325 XI.* 5. en—þat: ge*r*iz þe*tt*a þo nu *325 XI.* þó: *ul. 325 IX.* gerisk nú: *omv. 325 IX.* 5—6. meira vandmæli: meiri vandi *325 IX.* 7. af: f*yri* *325 IX.* hǫfðingjum: he*r* *325 IX.* 7–8. spyrjum—hitt: e*r* os sagt *325 IX.* 8. ætli: ætl*ar* *325 XI.* 9. er mǫnnum | þó: *omv. 325 IX, XI.* ok*(2)*: *ul. 325 IX.* 11. jarl: h*ann* *325 XI.* 12. sǫnnuðu alt | þetta: *omv. 325 XI.* þetta: þ*at* *325 IX.* bar upp: sagði *325 IX, XI.* 13. studdu: *ok tf. 325 XI.* aðrir: *ul. 325 IX;* l*a*ndz *tf. 325 XI.* 13—16. Ok—þingi: oc let lanzfolk ser þat vel lika oc var Knutr til konungs tekinn yfir alla Danmork *J2.* 14 þeira fortǫlum | allra: *omv. 325 IX og ul.* saman. mann-: l*a*ndz *325 IX.* 16—18. En—kgs: *ul. J2.* 16. í—gǫrð: at þessv raði *325 IX.* uphafs-: hofvðs *325 IX.* 17—18. látit innsigla: i*n*sigli *325 IX.* 18. hafði hon: *omv. 325 IX.* innsigli: kn*vts* *tf. 325 IX.*

en hann sjálfr var leyndr þessu ǫllu. En er þeir Hǫrðaknútr ok Úlfr jarl urðu þess varir, at Óláfr konungr var kominn norðan ór Nóregi með her mikinn, þá fóru þeir til Jótlandz, þvíat þar er mest megin Dana-veldis; skáru þeir þá upp herǫr ok stefndu saman her miklum. En er þeir spurðu, at Svía-konungr var ok þar kominn með her sinn, þá þóttusk þeir eigi styrk hafa at leggja til bardaga við þá báða. Þá heldu þeir samnaðinum á Jótlandi ok ætluðu at verja þat land fyrir konungum: en skipa-herinn drógu þeir allan saman í Limafirði ok biðu svá Knúts konungs.
En er þeir spurðu, at Knútr konungr var vestan 1027
kominn til Limafjarðar, þá gerðu þeir sendimenn til hans ok til drótningar Emmu ok báðu, at hon skyldi

---

1. en—sjálfr: Knutr konungr *J2, 325 XI (?).* leyndr | þessu ǫllu: *omv. J2, 325 IX, der ul.* ǫllu. En: þa *J2;* Oc *325 IX.* 2. Hǫrða-: *ul. J2.* þess varir: varir við *J2.* 3. her mikinn: *omv. J2, 325 IX.* 4—5. þvíat—Dana-veldis: oc *J2.* 4. þar: þ*at 325 XI.* mest: *ul. 325 IX.* 5. þeir þá: *ul. J2;* þá *ul. 325 IX.* 6. her miklum: miklvm ma*nn*fiolda *325 IX.* En—spurðu: þa spyria þeir oc *(ul. 325 XI) J2, 325 XI.* En: Oc *325 IX.* 6—7. var ok: er *J2.* 7. með—sinn: *ul. 325 IX.* her sinn: *omv. 325 XI.* her—þá: micinn her *J2;* þá *ul. 325 XI.* þeir: þa *tf. J2, 325 XI.* 8. styrk hafa: hafa styrk t*il 325 IX.* styrk: til *tf. J2.* þá báða: *omv. J2.* Þá: *ul. J2; efter* þeir *325 IX.* 9. Jótlandi: iotl*and 325 IX.* 9—10. ok—kgum: *ul. J2.* 9. ætluðu: ætla *325 IX.* 10. fyrir kgm: *ul. 325 IX.* 11. allan saman: *omv. 325 IX;* allan *efter* herinn *325 XI.* í: á *325 IX.* -firði: -fiarþar *325 XI;* -fiorð *J2.* ok—kgs: *ul. 325 IX.* biðu svá: ætluðu *(sål. også 325 XI)* at biþa þar *J2.* 12. En: Oc *325 IX.* 12—13. vestan kominn: *omv. 325 IX og tf.* af engl*a*ndi *og ul.* til Limafj. 13. gerðu: sendu *325 IX.* sendi-: *ul. J2.* sendimenn: orð *325 IX.* 13—14. til hans: a hans fund *J2.* til—ok*(1)*: *ul. 325 IX.* 14. hans: kn*vts* k*onung*s *325 XI.* drótningar E.: *omv. J2, 325 IX.* ok*(2)*: *ul. J2.*

U 419 H 268 verða vís, hvárt konungr var þeim reiðr eða eigi, ok láta þá þess verða vara. Drótning rœddi þetta mál við konung ok segir, at Hǫrðaknútr, sonr þeira, vildi bœta ǫllu því, sem konungr vildi, ef hann hefði þat gǫrt, er konungi þœtti í móti skapi. Hann svarar, segir, at Hǫrðaknútr hafði ekki sínum ráðum fram farit — »hefir þat svá tekizk, kvað hann, sem ván var at, er hann var barn ok óviti, er hann vildi konungr heita ok vanda nǫkkurn bar til handa honum, at land þetta alt myndi herskildi farit ok leggjask undir útlenda hǫfðingja, ef eigi kvæmi várr styrkr til; nú ef hann vill nǫkkura sætt við mik gera, þá fari hann á fund minn ok leggi niðr hégóma-nafn þat, er hann hefir sik konung látit kalla«. Sendi síðan drótning þessi sǫmu orð til Hǫrðaknúts ok þat með, at hon bað, at hann skyldi eigi þessa ferð undir hǫfuð leggjask,

1. verða vís: *omv.* *325 IX, XI.* hvárt: Knutr *tf.* *J2, 325 IX.* var: væri *J2. 325 IX.* 2. verða vara: visa verða *325 IX.* Drótning: *med art.* *325 IX.* rœddi—mál: talar *J2.* þetta: þ*at* *325 XI.* 3. við: Knut *tf* *J2.* við kg.: f*yri* k*onungi* *325 IX.* sonr: son *70, 325 IX;* s. *de øvrr.* vildi: vill *325 XI, J2;* skylldi *325 IX.* 4. bœta ǫllu: *omv.* *J2.* því, sem: er *J2.* sem: e*r* *325 IX.* vildi: vill *J2, 325 XI.* ef—þat: þat er hann hefir af *J2.* hefði þat: hef*ir* nǒckot *325 XI.* 5. er—þœtti: við þic þat er þer þotti *J2.* þœtti: v*æ*ri *325 IX.* svarar: *ul* *325 IX.* 6. segir: *ul.* *J2.* Hǫrða-: *ul.* *J2.* hafði: hafi *J2* (hefir *J3).* 7. þat: nv oc *tf.* *325 IX.* kvað hann: *ul.* *J2, 325 IX.* 8. ok óviti: at alldri *J2.* er hann*(2)*: en*n* *325 IX.* 8–9. kgr heita: *omv.* *325 IX.* 9. ok—honum: *ul.* *J2.* bar: bæri *325 XI.* 9—10. ok—ok: þa myndi l*and* þ*etta* *325 IX.* 10. alt myndi: *omv.* *J2.* 10—11. ok—hǫfðingja: *ul.* *J2.* 11. ef*(1)*: hann *tf.* *J2.* eigi kvæmi: *omv.* *J2.* várr—til: til með sinn styrc *J2.* 12. við mik: *ul.* *J2.* gera: eiga *325 IX.* 13. fund minn: *omv.* *325 IX.* 14. látit kalla: *omv.* *325 IX.* Sendi síðan: *omv.* *325 IX.* síðan: *ul.* *J2.* 15. sǫmu: *ul.* *J2, 325 IX.* orð: svor *325 IX.* þat–hon: *ul.* *325 IX.* 15—16. til—bað: Knuti oc bað með *J2.* 16. at . . skyldi: *ul.* *325 IX.* eigi | þessa ferð: *omv.* *J2.* þessa: þá *325 IX.*

sagði, sem var, at hann myndi engi styrk til þess fá, at standa í mót feðr sínum. En er þessi orðsending kom til Hǫrðaknúts, þá leitaði hann ráðs við jarl ok 0 163 við aðra hǫfðingja, þá er með honum váru. En þat fannzk brátt, þegar er landz-fólkit spurði, at Knútr inn gamli var kominn, þá dreif til hans allr múgr landzins ok þótti þar traust sitt alt. Sá Úlfr jarl ok aðrir félagar hans, at ii. váru kostir fyrir hǫndum, annat hvárt, at fara á fund konungs ok leggja alt á hans vald, eða stefna af landi brot elligar; en allir fýstu Hǫrðaknút at fara á fund fǫður síns. Gerði hann svá. En er þeir hittusk, þá fell hann til fóta feðr sínum ok lagði innsiglit í kné honum, þat er konungs-nafn fylgði. Knútr konungr tók í hǫnd Hǫrðaknúti ok setti hann í sæti svá hátt, sem fyrr hafði hann setit. Úlfr jarl sendi Svein, son sinn, á

---

1. sagði: þat *tf. 325 IX.* 1—2. sagði—sínum: *ul. J2.* 1. sem: sat*t tf. 325 IX.* engi: engan *325 IX.* 2. mót feðr: moti foð*ur 325 IX.* En: Oc *325 IX.* -sending: *ul. J2 og har* komu *(f.* kom*).* 3. Hǫrða-: *ul. J2.* þá: *ul. 325 IX.* 3—11. þá—fara: varu þat rað lansmanna allra at hann fǫri *J2.* 3. jarl: iarl*inn 325 IX.* 4. við: *ul. 325 IX.* þá—váru: *ul. 325 IX.* 4—5. En—brátt: Oc fanz þ*at 325 IX.* 5. landz-: land- *325 IX.* 6. inn gamli: k*onung*r *325 IX.* 7. landzins: oc m*a*rgme*nn*i *325 IX.* traust—alt: allt travst *er* Kn*utr* kon*ung*r *var 325 IX.* Sá: þ*at tf. 325 IX.* Úlfr: þa *325 XI.* 8. félagar hans: *omv. 325 IX.* 8—9. fyrir—hvárt: t*il* ann*ar 325 IX.* 8. hǫndum: h*endi 325 XI.* 9. fund: Kn*uts tf. 325 IX, XI.* 10. brot elligar: a b*rott* ellar *325 XI.* 11—12. Gerði—svá: oc s*va* ger*ði* h*ann 325 IX.* Gerði—hittusk: *sål. ÓH (53) og 325 XI, hvor dog* Gerði hann *er afrevet; mgl. K, 18, 70;* reði *(*reð *J3)* hann þat oc af enn er þeir hittuz *J2.* 12. En: Oc *325 XI.* þá: *ul. J2.* hann: Knutr *J2.* 13. feðr: fǫð*ur 325 IX.* innsiglit: innsigle *J2.* í: a *325 IX.* 14. -nafn: *med art. 325 IX.* 15. Hǫrðaknúti: honum *J2, 325 XI.* fyrr: aðr *J2.* 15—16. fyrr . . . hann: h*ann* . . . aðr *325 IX.* 16. setit: haft *J2, 325 XI.* son: svn *325 IX.*

fund Knúts konungs. Sveinn var systurson Knúts konungs. Hann leitaði griða feðr sínum ok sættar af konungi ok bauð at setjask í gísling af hendi jarls.
H 269 Þeir Sveinn ok Hǫrðaknútr váru jafnaldrar. Knútr konungr bað þau orð segja jarli, at hann samnaði her ok skipum ok fœri svá til fundar við konung, en rœddi síðan um sættir sínar. Jarl gerði svá.

U 420 **K. 149.** Hernaðr á Skáni.

*[ÓH (Fms.) k. 145, (Flat.) k. 211; Fsk. k. 100; ÓH (49) k. 64, 65, 66; 68 fin., Ældste sag. 10.]*

1027 En er Óláfr konungr ok Ǫnundr konungr spurðu, at Knútr konungr var vestan kominn, ok þat, at hann hafði þá óflýjanda her, þá sigla þeir austr fyrir Skáni, taka þá at herja ok brenna herǫð, sœkja svá austr fyrir landit til móts við ríki Svía-konungs. En þegar er landz-fólkit spurði, at Knútr konungr var vestan

---

1—2. Kn. kgs: hans *J2.* 2. feðr: foð*ur* *325 IX.* sættar: sætta *J2, 325 XI.* 3 af*(2)*—jarls: f*yri* iarl*inn* *325 IX.* 4. Þeir - jafnaldrar: *ul. J2.* -aldrar: -gamlir *335 IX.* 5. jarli: iarlinvm *325 IX.* samnaði: samni *325 IX.* her: liþe *J2;* at s*er* *tf. 325 IX.* 6. fœri: fari *325 IX.* svá: *ul. 325 IX.* siþ*an* *325 XI.* svá—kg: siþan a fund Knuts konungs *J2.* kg: *med art. 325 IX.* 6—7. en rœddi: oc ræddi þ*eir* *325 IX.* en—síðan: siþan ræþi þeir *J2.* 7. rœddi: talaðe *(?) 325 XI.* síðan: þa *325 XI.* sínar – svá: *ul. J2.* Jarl – svá: *ul. 325 IX.* 8. *Overskr. fra 18; mgl. K, 70; kap.skifte antydet i J2, J3;* fra *olafi konungi oc* On*vndi* (ønu*ndi* *325 XI)* *konungi* *325 IX, 325 XI.* 9. En: Ok *325 IX.* 10. kgr: *ul. 325 IX.* vestan kominn: *omv. 325 IX og tf.* af engla*ndi.* 10—11. ok—þá*(1)*: með *325 IX.* 10. þat: með *tf. J2. 325 XI.* 11. þá*(1)*: *ul. J2, 325 XI.* óflýjanda her: *omv J2. 325 XI.* austr: østann *J2, 325 XI.* 12. taka—at: oc *325 IX.* herǫð: *med art. J2 og tf.* oc. 13. ríki—kgs: Svia riki *J2.* þegar: *ul. J2, 325 IX.* 14. landz-: la*nd*- *325 IX.*

kominn, þá varð ekki af handgǫngu við konunga; þessa getr Sigvatr skáld:

98. Gǫtut drótnar
Danmǫrk spanit
und sik sǫkum
snarir herfarar;
þá lét skarpla
Skáney Dana
hlǫðr herjaða;
*hǫfuðfremstr jǫfurr.*

Þá sóttu konungar austr fyrir landit ok lǫgðu at þar, er heitir Áin helga, ok dvǫlðusk þar um hríð. Þá spyrja þeir, at Knútr konungr fór með her sinn austr eptir þeim. Þá bera þeir ráð saman ok tóku þat til, at Óláfr konungr með liði sínu sumu gekk á land upp ok alt á markir til vats þess, er Áin helga fellr ór; gerðu þar í árósinum stíflu með viðum ok torfi, ok stemma svá uppi vatnit, ok svá skáru þeir díki stór ok hleypðu saman fleirum vǫtnunum, ok gerðusk þar H 270
víðir flóar; en í árveginn hjoggu þeir stórviðu. Þeir váru í þessu starfi marga daga, ok hafði Óláfr konungr alt tilstilli um brǫgð þessi, en Ǫnundr konungr hafði

1. þá: *ul. J2.* kga: *med art. 325 IX.* 2. þessa: þess *J2, 325 IX.* skáld: *ul. J2, 325 XI; i* kn*vts* drapv *325 IX.*
3—6. **98. vísa.** 1. Gǫ́tut: Gátv *325 IX;* Gatuð *K. 325 XI.* 3. und: *sål. J2;* undir *K. 325 IX.* 4. -farar: -fǫr *325 IX.*
7. Þá: Siþ*an 325 IX.* kgar: *med art. 325 IX.* landit: land *J2* lǫgðu: sottu *J2.* 8—9. Þá—þeir: þ*eir* spvrðv þ*at 325 IX.* 9. með—austr: norþan *J2.* 10. Þá bera: barv *325 IX.* ráð saman: saman rað sin *325 IX, J2 (325 XI?)* til: rað *325 XI.* 11. með—sumu: með her sinn svman *(ul. J2) 325 IX, J2 (her efter* upp*).* sumu: *ul. 325 XI.* 12. ok: *ul. 325 IX.* markir: merkr *J2.* Áin helga[3] | fellr[2] | ór[1]: *omv. J2;* helga *ul. 325 IX.* ór: þ*eir tf. 325 IX.* 14. stemma: *skr.* stemſna *K. 70;* stefndv *325 IX;* stemdu *J2, 325 XI.* vatnit: vætninn *J2.* 14—16. ok—flóar: *ul. 325 XI.* ok—stórviðu: *ul J2;* stora uiðo *skr. 325 XI.* 14. ok—þeir: þ*eir* skarv oc *325 IX.* 15. þar: þa *tf. 325 IX.* 17. í—starfi | marga daga: *omv. J2.* 18. alt: ꝍll *J2, 325 XI.* brǫgð þessi: *omv. 325 IX.* kgr: *ul. J2.*

þá stjórn yfir skipa-hernum. Knútr konungr spurði til ferða þeira konunga ok svá skaða þann allan, er
O 164 þeir hǫfðu gǫrt á ríki hans; heldr þá til móts við þá, þar er þeir lágu í Ánni helgu, ok hafði her mikinn, ok hálfu meira en þeir báðir; þessa getr Sigvatr:

99. Létat af jǫfurr — vildi foldar
(ætt manna fannsk) — fæst rǫn Dana
Jótlands etask — hlífskjǫldr hafa;
ílendr (at því); — *hǫfuðfremstr jǫfurr.*

U 421 **K. 150.** Orrosta fyrir Ánni helgu.

*[ÓH (Fms.) k. 146, (Flat.) k. 212; Fsk. k. 100; ÓH (49) k. 66, 68 fin.]*

1027 Þat var einn dag at kveldi, at njósnar-menn Ǫnundar konungs sá sigling Knúts konungs, ok átti hann þá þangat eigi langt. Þá lét Ǫnundr konungr blása herblástr. Ráku menn þá tjǫld af sér ok

---

1. þá stjórn: her stiorn meþan *J2.* þá: *ul. 325 IX.* yfir: fyrir *J2, 325 IX (J3 = K).* -hernum: herinvm (-om) *325 IX, XI;* liþino *J2.* 2. kga: *med art. J2, 325 IX, XI.* 2—3. skaða—gǫrt: hvern scaða þeir gerðu *J2;* til skaða þess er þeir hofðv gert *325 IX.* 3. á—hans: i hans riki *325 IX.* heldr: hellt hann *J2, 325 IX, XI.* þá(1): *ul. 325 IX.* 4. hafði: hann *tf. 325 IX, XI, J2.* 4—5. her—ok: meir en *325 IX, XI, J2.* 5. meira: fleira liþ *J2;* fleira lið *325 XI;* lið *tf. 325 IX.* þessa: þess *J2, 325 IX, XI.* Sigvatr: scalld *tf. J2.*

6—9. **99. vísa.** 1. af jǫfurr: iofrar *J2.* 2. fannsk: fann *J2.* 3. -lands: -land *J2.* etask: ættaz *J2.* 4. -lendr: -lendi *J2.* 6. fæst: flest *325 IX.*

10. *Overskr. fra 18; mgl. K, 70;* hersaga *325 IX;* Orrosta i anni helg(!) *325 XI;* fra þi er Knutr konvngr lagþi i ana *J2.* 11. at(2): er *325 IX.* 13. þá: *ul. J2.* þangat | eigi langt: *omv. 325 IX.* 14. Ráku—sér: oc reka þeir af ser tioldin *325 IX.* þá: *ul. J2.* tjǫld | af sér: *omv. J2 (sål. også 325 XI) og skr.* tioldinn.

herklæddusk, røru út ór hǫfninni ok austr fyrir landit, lǫgðu þá saman skip sín ok tengðu ok bjoggusk til bardaga. Ǫnundr konungr hleypði njósnar-mǫnnum á land upp; fóru þeir á fund Óláfs konungs ok sǫgðu honum þessi tíðendi. Þá lét Óláfr konungr brjóta stíflurnar ok hleypa ánni í veg sinn; en hann fór um nóttina ofan til skipa sinna. Knútr konungr kom fyrir hǫfnina; þá sá hann, hvar lá herr konunga búinn til bardaga; þótti honum, sem þá myndi vera H 271
síð dags at leggja til orrostu, um þat er herr hans væri allr búinn, þvíat floti hans þurpti rúm mikit á sænum til at sigla; var langt í milli ins fyrsta skips ok ins síðarsta, svá þess, er útarst fór, eða hins, er næst fór landi. Veðr var lítit. En er Knútr konungr sá, at Svíar ok Norðmenn hǫfðu rýmða hǫfnina, þá lagði hann inn til hafnar ok svá skipin, sem rúm

---

1. herklæddusk: oc *tf. J2, 325 IX.* landit: *uden art. J2, 325 IX.* 2. þá: *ul. J2, 325 IX, XI.* skip sín: scipinn *J2.* ok*(2): ul. 325 XI.* bjoggusk: þa *tf. J2, 325 XI.* 3—4. hleypði—þeir: sendi menn *J2.* 3. hleypði: þá *tf. 325 IX.* 4. fóru: oc f*ara 325 IX.* fóru—fund: til *325 XI.* ok sǫgðu: at segia *J2.* 5. Þá . . . Ól. kgr: *omv. J2.* 6. hann: Olafr konungr *J2.* 7. um—ofan: *ul. 325 IX.* um nóttina | ofan: *omv. 325 XI.* sinna: *herefter nyt kap. i 325 IX med overskr.* orosta. 8. þá—hann: oc sa *J2, 325 IX;* sa h*ann* þa *325 XI.* kga: *med art. J2. 325 IX.* 9. þá: h*onvm 325 IX.* vera: þa *325 IX.* 10. herr hans: h*errinn 325 IX.* 11. væri allr: *omv. 325 IX.* rúm mikit: *omv. J2, 325 IX.* 12. sænum: sianom *J2;* sionv*m 325 IX.* til: *ul. J2, 325 IX, XI.* sigla: ligia *J2.* í: *ul. J2, 325 XI.* milli: millv*m 325 IX.* 12—14. fyrsta—landi: ytzta scips hans oc enz inzta *J2.* 13. þess: hins *325 IX.* eða hins: oc þ*ess 325 IX.* 14. fór: *ul. 325 IX.* En: Oc *325 IX.* kgr: *ul. 325 IX.* 15. Svíar ok: *ul. J2.* Svíar . . . Norðm.: *omv. 325 IX.* rýmða: rymt *J2, 325 IX;* fyri honum *tf. J2.* 16. sem: *hermed beg. 4. blad i 325 XI.*

hǫfðu; en þó lá meginherrinn út á hafinu. Um morgininn, er mjǫk var ljóst, þá var lið þeira mart á landi uppi, sumt á tali, en sumt at skemtan sinni. Þá finna þeir eigi fyrr, en þar geysask vǫtn at þeim með forsfalli; þar fylgðu viðir stórir, er rak at skipum þeira; meiddusk skipin þar fyrir, en vǫtnin flutu um vǫlluna alla; týndisk þat fólkit, er á landi var, ok mart þat, er á skipum var; en allir þeir, er því kómu við, hjoggu festar sínar ok leystusk út, ok rak skipin mjǫk sundrlaus. Dreka inn mikla, er sjálfr konungr var á, rak út fyrir straumi; varð honum ekki auðsnúit með árum; rak hann út at flota þeira Ǫnundar konungs. En er þeir kendu skipit, þá lǫgðu þeir þegar at umhverfis; en fyrir þá sǫk, at skipit var borðmikit, svá sem borg væri, en fjǫlði mannz á ok valit it bezta lið, vápnat ok sem øruggligast, þá varð skipit

1. en—lá: oc lá þó *325 IX.* hafinu: *herefter nyt kap. i J2 med overskr.:* Bariz i anne ʜelgu. Um: Of *J2, 325 XI.* 2. mjǫk—ljóst: liost v*ar* *325 IX.* þá var: var mart *J2 og ul. det følg.* mart. lið . . . mart: he*r* . . . ma*r*gr *325 IX.* 3. uppi: *ul. J2.* á: at *325 IX* en: *ul. 325 IX.* 4. þar—vǫtn: votn geysaz *J2, 325 IX.* 5. fylgðu: þa *tf. 325 IX.* 5—6. er—þeira: *ul. J2, 325 XI* 6. þeira: oc *tf. J2, 325 IX, XI.* skipin þar: skip þ*ei*ʀa *325 XI.* skipin—fyrir: fyrir scip þeiʀa *J2.* þar: *ul. 325 IX.* 7. vǫlluna alla: *omv. J2, 325 IX, der skr.* vollu. týndisk—fólkit: tyndvz *men*ɴinir þ*eir* *325 IX.* fólkit: allt mannfolkit *J2.* var: va*rv* *325 IX.* 8. þat—var: af skipvnv*m* *325 IX;* scipunum *skr. også J2, 325 XI.* 9. hjoggu: leystu *J2.* 10. Dreka inn: dreka*ɴ* *325 IX;* dreka þann en *J2.* sjálfr: knutr *J2, 325 IX, XI.* 11. var á: styrði *325 IX.* varð: var *J2.* -snúit: -styrt *J2.* 12. flota: *med art J2, 325 XI.* 12—13. Ǫn. kgs: k*onvnga*ɴa *325 IX.* kgs: *ul. J2, 325 XI.* 13. En: Oc *325 IX.* þá: *ul. J2.* þegar: *ul. J2, 325 IX.* 14. þá sǫk: þvi *J2, 325 IX.* 15. svá: *ul. J2, 325 IX.* 15—16. en—øruggligast: *ul. 325 IX.* 15. mannz: manna *J2.* 15—16. ok—øruggligast: alvapnaðra *J2.*

ekki auðsótt; var ok stundin skǫmm, áðr Úlfr jarl U 422
lagði at með sínu liði, ok hófsk þá orrosta. Því næst
drósk at herr Knúts konungs ǫllum megin. Þá sá
konungar, Óláfr ok Ǫnundr, at þeir mundu unnit hafa
þá at sinni þann sigr, sem auðit var; létu þá síga
skip sín á hǫmlu ok leystusk í brot ór her Knúts O 165
konungs ok skilðu flotana. En fyrir þá sǫk, at atlaga H 272
þessi hafði ekki þannug tekizk, sem Knútr konungr
hafði til skipat, hǫfðu skipin ekki þannug fram lagt
sem til var skipat, þá varð ekki af atróðrinum; ok
kǫnnuðu þeir Knútr konungr lið sitt ok tóku þá at
skipa liðinu ok bjoggusk um. En er þeir hǫfðu skilizk
ok sér fór hvárr flotinn, þá kǫnnuðu konungar lið
sitt ok funnu, at þeir hǫfðu ekki mannspell fengit;

1. auðsótt: en*n* fiolði m*annz* á oc valít lið. oc vapnat sem orvgligaz þa v*ar* skipít ek*k*i avðsot*t(!) tf. 325 IX.* var—stundin: enn stund *(sål. 325 XI)* var *J2; var* o*rostu(!)* stundin *325 IX.* 2. sínu liði: *omv. 325 IX.* ok—orrosta: hofz þ*ar* or*rostan 325 IX.* 3. herr—kgs: herrinn *efter* megin *J2;* kgs *ul. 325 XI.* Þá sá: *omv. 325 XI(?;* þá *afrevet).* 3—4. Þá—kgar: oc sá k*onvngarnir* þa *325 IX.* 5. þá*(1): ul. J2.* at sinni | þann sigr: *omv. J2.* sem: þeim *tf. J2 og omv.* var auðit. létu: þ*eir tf. 325 IX.* 6. skip sín: *ul. 325 IX.* 6—7. ok—kgs: *ul. J2.* 7—8. atlaga þessi: atlagan *J2.* 8. þannug tekizk: þannig *(sål. også 325 IX;* þ*anneg 325 XI)* orþit *J2.* 9. til skipat: ætlat *J2.* 9—10. hǫfðu—ok: *ul. J2; med* -þo *(ɔ:* hǫfþo*) beg. det bevarede mbrblad af Kringla; i K og 70 er den følgende tekst taget af J, hvorimod 18 har K-mbrs tekst (jfr. den fotot. udg.).* 9. þannug fram: þa*n*veg at *325 IX.* 10. skipat: ætlat *325 IX.* þá varð: oc v*ar* þ*vi 325 IX.* 10—11. ok—ok: *ul. J2.* ok—þeir: kannaði *325 IX.* 11. kgr: þá *tf. 325 IX.* ok: *ul. J2.* 11—12. tóku—um: skipaði t*il* atlogv *325 IX.* 11. tóku: þeir *tf. J2.* 12. bjoggusk: buaz *J2.* En: Oc *325 IX.* hǫfðu skilizk: v*arv* skilðír *325 IX.* 13. fór—flotinn: v*ar* liðit hv*art 325 IX.* kgar: þeir *(ul. 325 IX);* konungarnir *J2, 325 IX. XI.* 14. funnu: skilðv *325 IX* (fundu *skr. 325 XI, J2).*

þat sá þeir ok, ef þeir biði þar þess, er Knútr konungr hefði búit allan her þann, er hann hafði, ok legði síðan at þeim, at liðs-munr var svá mikill, at litil ván var, at þeir mundu sigrask, en auðvitat, ef orrosta tœkisk, at þar myndi verða it mesta mannfall. Nú var þat ráð tekit, at róa liðinu ǫllu austr með landi. En er þeir sá, at flotinn Knúts konungs fór ekki eptir þeim, þá reistu þeir viður ok settu upp segl sín. Óttarr svarti rœðir um fund þenna í þeiri drápu, er hann orti um Knút inn ríka:

100. Svíum hnekðir þú, sóknar
siklingr ǫrr, en mikla
ylgr, þars ǫ́ en helga,
4 ulfs beitu fekk, heitir;
helt, þars hrafn né svalta,
(hvatráðr est þú) láði,
ógnar stafr, fyr jǫfrum,
8 ýgr, tveimr (við kyn beima).

---

1. þat | sá—ok: *omv. 325 IX.* þar: *ul. J2.* er: at *J2.* 2. allan—hafði: her sinn allan *325 IX.* allan: *ul. J2; efter* þann *325 XI.* þann: enn micla allann *tf. J2.* 3. at þeim: *ul. 325 XI.* 4. mundu: mundi *J2, 325 IX, XI.* 4—5. en—mannfall: *ul. J2.* 5. -fall: -spell *325 IX.* 6. róa· þeir rerv *325 IX.* liðinu ǫllu: *omv. J2; ul. 325 IX.* 7. En: Oc *325 IX.* flotinn—fór: Knutr konungr hellt *J2;* floti *skr. 325 IX, XI.* 8. ekki: *ul.(!) 325 IX;* ej *skr. J2.* viður: viðu *J2, 325 XI;* viðv sina *325 IX.* 9. Óttarr—þenna: sva segir ottaʀ svarti *J2.* rœðir—þenna: segir *fra* þessvm fvndí *325 IX.* þeiri drápu: *omv. J2, 325 IX.* 10. um: *mgl. K-mbr.* Knút: konvng *tf. 325 XI.* inn ríka: konung *J2.*

11—18. **100. vísa.** *L. 5—8 i Sn. E I 416.* 1. sóknar: *sål. rettet (*sókna *Flat., Fsk.;* sœkna *ÓH (49)); sǫcqva K-mbr.;* sǫ́ckva *325 XI;* sæckva *J2;* sokkva *325 IX.* 2. en: hín *325 IX.* mikla: mikli *J2, 325 IX, XI.* 3. þars: þar er *alle = l. 5.* ǫ́ en: áin *alle.* 5. helt: hellztu *(*helzt þu *325 XI) alle.* hrafn: hrafne *J3.* né svalta: sultut *J2, J3;* svalltat *skr. 325 IX.* 6. est þú: ertu *(*ert þu *325 XI) alle.* 7. stafr: æfr *J2, 325 XI.* 8. ýgr: ygr *J2, 325 XI.* tveimr: tveim *alle. (*-mr *Sn. E.)*

Þórðr skáld Sjáreksson orti erfidrápu um Óláf konung inn helga; sú er kǫlluð Róðadrápa, ok er þar getit þessa fundar:

101. Átti, Egða dróttinn,
Áleifr, þrimu stála
við ágætan Jóta
ǫðling, þann's klýfr hringa;
skaut nær skarpt at móti
Skǫnunga gramr hǫnum;
Sveins vasa sonr at reyna H 273
slær; þaut ulfr of hrævi.

## K. 151. Ráðagǫrðir Óláfs konungs ok Ǫnundar konungs.

*[ÓH (Fms.) k. 147, 148, (Flat.) k. 213, 214; Fsk. k. 101; ÓH (49) k. 66, Ældste sag. 9.]*

Óláfr konungr ok Ǫnundr konungr sigldu austr 1027
fyrir veldi Svía-konungs; ok at apni dags lǫgðu þeir at landi, þar er heitir Barvík; lágu konungar þar um nóttina. En þat fannzk á um Svía, at þeim var þá títt heim at fara; var þat mikill hluti Svía hers, at U 423

1. Þórðr skáld: Sva qvað Þorðr *J2 og ul.* orti; skáld *ul. 325 IX.* erfi-: *ul. 325 IX;* i erf. *J2.* um: ept*ir 325 IX.* 1—3. um—fundar: Olafs konungs *J2.*

4—11. **101. vísa.** 2. Áleifr: Olafr *(delvis fork.) alle.* 4. þann's: þann er *alle.* klýfr: *sål. K-mbr., 325 IX (jfr. K. Gísl. Udvalg 117—18),* klauf *J2, 325 XI.* 8. of: um *K-mbr., J2;* í *325 IX;* of *325 XI.*

12—13. *Overskr. fra K-mbr., J2 (der dog har* gerþ *og ombytter navnene); fra* Olaf*i* konvng*i (ok* oñði *tf. 352 XI) 325 IX, XI.* 15. veldi Svía—kgs: svia velldi *325 IX.* 16. er: sem *325 XI.* kgar: *med art. 325 IX.* 17—18. þeim—at*(2):* þeir varu heimfusir þviat meginnherrinn allr *J2.* þá . . at fara: *ul. 325 IX.* 18. at fara: *ul. 325 XI.* var þat: þ*vi* at *325 IX, XI.* at: *ul. 325 IX, XI.*

siglði um nóttina austr með landi, ok létta þeir eigi fyrr sinni ferð, en hverr kom til síns heimilis. En er Ǫnundr konungr varð þessa varr, ok þá lýsti af degi, þá lét hann blása til húsþings. Gekk þá alt lið á land ok var sett þing. Ǫnundr konungr tók til máls: »svá er, segir hann, sem þér, Óláfr konungr, vituð, at vér hǫfum í sumar farit allir saman ok herjat víða um Danmǫrk; hǫfum vér fengit fé mikit en ekki af lǫndum; ek hefi haft í sumar hálft fjórða hundrað skipa, en nú er eigi meirr eptir en c. skipa; nú lízk mér svá, sem vér mynim vinna ekki til sœmðar með eigi meira her, en nú hǫfum vér, þó at þér hafið lx.
O 166 skipa, sem þér hafið í sumar haft; nú þykki mér þat sýnligast at fara aptr í ríki mitt, ok er gott heilum vagni heim at aka; vér hǫfum aflat í ferð þessi, en ekki látit. Nú vil ek, Óláfr mágr, bjóða yðr, at þér farið með mér, ok verum í vetr allir ásamt; takið slíkt af mínu ríki, sem þér fáið yðr vel haldit, ok þat lið, sem yðr fylgir. Gerum þá, er vár kømr, slíkt
H 274 ráð sem oss sýnisk. En ef þér vilið heldr þann kost,

1. um nóttina | austr—landi: *omv. J2, 325 XI.* létta þeir: letti *325 IX;* lettu *J2, 325 XI.* 2. sinni ferð: ferðinne *J2; ul. 325 IX; omv. 325 XI.* kom: heim *tf. J2, 325 IX.* síns heimilis: sinna heimkynna *J2.* En: Oc *325 IX.* 3. þessa varr: þess vís *325 IX.* ok: *ul. 325 IX.* lýsti: *med* ly *slutter 4. og sidste blad i 325 IX.* 3—4. ok—þá*(1): ul. J2.* 4—5. Gekk—þing: *ul. J2.* 5. land: upp *tf. 325 XI.* tók: þa *tf. J2, 325 XI.* 6. sem þér | Ól. kgr: *omv. J2, 325 XI.* vituð: vitit *J2.* 7. í sumar | farit: *omv. J2.* 8. fé mikit: mikit af fe *J2.* 10. skipa*(2): ul. J2.* 11. mynim: manom *J2.* ekki: litit *J2.* sœmðar: frama *J2.* 12. her: liþ *J2, 325 XI.* þó—þér: þott at er *J2 (K).* lx.: *sål. J2, 325 XI;* xl. *K-mbr.* 14. sýn-: syni- *325 XI.* 15. í—þessi: nockors *J2.* 16. Nú | vil ek: *omv. 325 XI.* Ól. mágr | bjóða yðr: *omv. 325 XI.* yðr: *ul. J2.* 16—17. þér farið: þu farir *J2.* 17. mér: oss *325 XI.* á-: *ul. J2, 325 XI.* 18. mínu: *varv 325 XI.* ríki: *ul. J2.* þér: vilit oc *tf. J2.* yðr | vel haldit: *omv. J2.* 18—20. þat—sýnisk: liþ þitt *J2.*

at hafa land várt til yfirferðar, þá skal þat heimilt, ok vilið þér fara landveg í ríki yðart í Nóreg«. Óláfr konungr þakkaði Ǫnundi konungi vinsamlig boð, er hann hafði veitt honum — »en þó, ef ek skal ráða, segir hann, þá mun annat ráð tekit, ok munu vér halda saman her þessum, er nú er eptir. Hafða ek fyrst í sumar, áðr ek fór ór Nóregi, hálft fjórða hundrað skipa, en er ek fór ór landi, þá valða ek ór her þeim ǫllum þat lið, er mér þótti bazt; skipaða ek þessa lx. skipa, er nú hefi ek. Nú lízk mér ok svá um yðart lið, sem þat myni hafa á brot hlaupit, er dáðlausast var ok verst fylgð í; en ek sé hér alla hǫfðingja yðra ok hirðstjóra, ok veit ek, at þat lið er alt betra til vápns, er hirðliðit er; hǫfum vér enn mikinn her ok skipa-kost svá góðan, at vér megum vel liggja úti á skipum í allan vetr, svá sem konungar hafa fyrr gǫrt. En Knútr konungr mun lítla hríð liggja í Ánni helgu, þvíat þar er engi hǫfn skipa-fjǫlða þeim, er

2 vilið: vili *325 XI*. þér: er *J2*. í(1)—yðart: *ul. J2;* nor[ðr] *tf. 325 XI*. Nóreg: *herefter nyt kap. i J2 med overskr.:* fra Olafi konunge, *i 325 XI med overskr.:* tala Ol*afs* ko*nv*ngs. 3. -samlig: -samlegt *325 XI*. 3—4. er—honum: *ul. J2*. 4. þó: *ul J2*. 4—5. ef—ráða | segir hann: *omv. 325 XI*. 5. segir hann: *ul. J2*. ráð tekit: afraþit *J2*. munu: munum *J2*, *325 XI*. 6. her þessum: liþino þvi *J2*. nú: her *J2*. 6—14. Hafða—hirðliðit er: *ul. J2*. 7. fór: fǫ̊ra *325 XI*. 8. en—landi: *ok 325 XI*. 9. bazt: bezt *ok 325 XI*. 10. ek(1): með *tf. 325 XI*. 11. yðart: yðar *325 XI*. á—hlaupit: i b*ro*tto v*er*a *325 XI*. 12. var: er *325 XI*. en—sé: se ek *325 XI*. 14. betra: bezt *325 XI*. er hirðliðit: sem hirðen *325 XI*. er(3): *ok* h . . . ept*ir* dualz *tf. 325 XI*. 14—15 enn—her: valit liþ *J2*. 15. svá: *ul. J2*, *efter* góðan *325 XI*. at—megum: megom ver *J2*. 16. úti: *ul. J2*. 16—17. svá—gǫrt: sem siþr herkonunga er til *J2*. 16. kgar: h*er*ko*nvn* . . . *325 XI*. 17. kgr: *ul. J2*, *325 XI*. lítla hríð: æigi lengi *J2*. 18. þar: þat *J2*, *325 XI*. skipa—er: slikom fiolda scipa sem *J2*. þeim, er: sliko*m* sem *325 XI*.

hann hefir; mun hann fara austr eptir oss; þá skolu vér fara undan, ok mun oss þá brátt lið dragask; en ef hann snýr aptr þangat, sem hafnir þær eru, er hann má liggja flota sínum, þá mun þar vera engum mun síðr en hér mart lið heimfúst. Vænti ek, at vér hafim svá um búit í sumar, at þorparinn viti, hvat hann skal vinna bæði á Skáni ok á Hallandi. Mun herr Knúts konungs dreifask brátt víz vegar, ok veit þá eigi, hverjum sigrs er auðit. Hǫfum fyrst njósnir af, hvert ráð hann tekr«. Lauk Óláfr konungr svá máli sínu, at allir menn gerðu góðan róm at, ok var þat ráðs tekit, sem hann vildi vera láta. Váru þá njósnir gǫrvar til liðs Knúts konungs, en þeir lágu þar báðir konungar.

U 424
H 275 **K. 152.** Frá Knúti konungi ok Úlfi jarli.

*[ÓH (Fms.) k. 149, (Flat.) k. 215; Fsk. k. 114.]*

1027 Knútr konungr sá þat, at Nóregs-konungr ok Svía-konungr heldu liði sínu austr fyrir landit; gerði hann þegar lið á land upp, lét menn sína ríða it øfra

---

1. mun—fara: Nv ef h*ann* feʀ austr *325 XI.* 1—4. mun—vera: veit ec oc at þar mvn *J2.* 1. skolu: skulv*m* *325 XI.* 2. þá: en*n* *tf. 325 XI.* lið dragask: *omv. 325 XI.* 3. sem: æʀ *325 XI.* þær eru: *omv. 325 XI.* 5. en—heimfúst: heimfust liþit enn her *J2.* 6. viti: mvn vita *J2, 325 XI.* 7. hann—vinna: gera skal *J2.* á(2) Hallandi: um Halland *J2; (*hall*a*nde *325 XI);* síolande *har K-mbr.* 8. kgs: *ul. J2, 325 XI.* dreifask brátt: *omv. J2.* ok: *ul. J2.* 9. þá: enn *tf. J2.* hverjum: hvarom *J2, 325 XI.* 9—10. fyrst . . . af: a . . . fyrst *J2.* 11. máli sínu: *omv. J2.* allir: *ul. J2.* 12. hann: k*onvng*r *325 XI.* vera láta: oc *J2; ul. 325 XI.* 13. til liðs: i her *J2;* liðs *ul. 325 XI.* 14. kgar: Aunundr konungr oc Olafr konungr *J2. 325 XI. der bytter navnene om.* 15. *Overskr. i K-mbr., 325 XI;* Leikit skak tafl *J2.* 16. at: æʀ þeir *325 XI.* 17. fyrir landit: með landi *J2;* l*a*nd *skr. 325 XI og tf.* þa. 17—18. gerði—lét: þa let hann *J2.*

dag ok nótt, svá sem lið konunga fór it ýtra; fóru þá aðrir njósnar-menn fram, er aðrir fóru aptr. Vissi Knútr konungr á hverjum degi tíðendi frá ferð þeira; O 167
váru njósnar-menn í her þeira konunga. En er hann spurði, at mikill hluti liðs var frá þeim farinn, þá helt hann sínum her aptr til Sjálandz ok lagðisk í Eyrarsund með allan herinn; lá sumt liðit við Sjáland, en sumt við Skáni. Knútr konungr reið upp til Hróiskeldu dag inn næsta fyrir Mikjáls-messu ok með honum sveit mikil manna. En þar hafði gǫrt veizlu í móti honum Úlfr jarl, mágr hans; veitti jarl allkappsamliga ok var allkátr. Konungr var fámálugr ok heldr ófrýnn; jarl orti orða á hann ok leitaði þeira málsenda, er hann vætti, at konungi myndi bezt þykkja. Konungr svarar fá. Þá spurði jarl, ef hann vildi leika at skáktafli; hann játti því; tóku þeir þá skáktaflit ok léku. Úlfr jarl var maðr skjótorðr ok

---

1. lið—fór: konungar sigldu' *J2, 325 XI.* 1—2. fóru—aptr: *ul. J2.* 2. Vissi: hafþi *J2.* 3—4. á—-menn: æ niosner *J2.* 3. frá ferð: or h*er* *325 XI.* 4. váru—kga: *ul. 325 XI.* kga: *ul. J2.* En: oc þa *J2, 325 XI.* 5. var: sigldr *tf. J2.* farinn: konungunum *J2.* 6. Sjá-: Sio- *J2, 325 XI.* 7. Eyrarsund: eyra sund *325 XI;* eyrasunde *J2 (*sund *K, 70, J3).* liðit: liþ *J2.* 7—8. Sjáland . . . Skáni: *omv. J2 og skr.* Skaney *(sål. også 325 XI)* . . . Sio- *(sål. også 325 XI).* 9. dag inn—ok: *ul. J2.* dag—næsta: næsta dag *325 XI.* 10. honum . . . mikil: micla *(foran* sveit*) J2, 325 XI.* 10—11. En—honum: hafþi buit veizlu i mot honum *efter* hans *J2.* 10. En: *ul. 325 XI.* 12—13. ok*(1)*—heldr: enn konungr var ukatr oc *J2.* 13. orða: marga vega *J2.* 13—16. ok—vildi: til glæði enn konungr var stuttmæltr oc fatalaðr. Iarl bauð honum at *J2.* 14. er: sem *325 XI.* vætti: hugðe *325 XI.* myndi: skyllde *325 XI.* 15. spurði: bauð *325 XI.* 15—16. ef—vildi: at m*v*ndv *325 XI.* 16. hann—því: oc þvi iataðe hann *(ko*n*u*ngr *325 XI), J2, 325 XI.* 17. -taflit: tafl *J2. 325 XI.* ok*(2): ul 325 XI.*

óvæginn bæði í orðum ok í ǫllum ǫðrum hlutum ok inn mesti framkvæmðar-maðr um ríki sitt ok hermaðr mikill, ok er saga mikil frá honum sǫgð; Úlfr jarl var maðr ríkastr í Danmǫrk, þegar er konunginn líddi. Systir Úlfs jarls var Gyða, er átti Guðini jarl Úlfnaðrsson, ok váru synir þeira Haraldr Engla-konungr, Tósti H 276 jarl, Valþjófr jarl, Mǫrukári jarl, Sveinn jarl, Gyða dóttir þeira, er átti Eatvarðr inn góði Engla-konungr.

## K. 153 Víg Úlfs jarls.

*[ÓH (Fms.) k. 150, 151, (Flat.) k. 216, 217; Fsk. k. 114, 115.]*

1027 En er þeir léku at skáktafli, Knútr konungr ok Úlfr jarl, þá lék konungr fingrbrjót mikinn; þá skækði jarl af honum riddara; konungr bar aptr tafl hans ok segir, at hann skyldi annat leika; jarl reiddisk ok skaut niðr taflborðinu, stóð upp ok gekk í brot. Konungr mælti: »rennr þú nú, Úlfr inn ragi«. Jarl snøri aptr við dyrrin ok mælti: »lengra myndir þú renna í Ánni helgu, ef þú kvæmir því við; kallaðir þú eigi þá

---

1—3. bæði—jarl: um alla luti hann *J2*. 1. ǫðrum hlutum: *omv. 325 XI.* ok*(2)*: *ul. 325 XI.* 2. ok: *ul. 325 XI.* 3. saga—sǫgð: fra h*o*nom lǫ̂ng saga *325 XI.* 4. maðr ríkastr: *omv. J2. 325 XI.* er—líddi: Knut konung leið *J2, 325 XI.* 5. Guðini: ɢuðeni *325 XI.* 6. Engla-: *ul. J2, 325 XI.* kgr: oc *tf. J2. 325 XI.* 7. jarl*(3)*: *ok tf. 325 XI.* Gyða: het *tf. J2, 325 XI.* 8. Eat-: Jat- *J2, 325 XI.* kgr: *ingen kap. inddel. i J2.* 9. *Overskr. fra K-mbr.; fra* skak tafle *325 XI.* 10—11. En—mikinn: oc er þeir hafþo leikit um stund at scacktaflino *J2.* 10. En: Oc *325 XI.* 11. skækði: skakaðe *J2, 325 XI.* 12. af—riddara: riddara af k*onvn*ge *325 XI.* honum: konunginom æinn *J2.* 12—13. tafl—skyldi: taflit oc bað hann *J2.* 13. segir—skyldi: bað h*ann* *325 XI.* annat leika: *omv. 325 XI.* reiddisk: *hermed ender 4. og sidste blad i 325 XI.* • 14. stóð upp: *ul. J2.* brot: brott *J2.* 17. eigi þá: *omv. J2.*

Úlf inn raga, er ek lagða til at hjálpa þér, er Svíar
bǫrðu yðr sem hunda«; gekk jarl þá út ok fór til
svefns. Lítlu síðarr gekk konungr at sofa. Eptir um
morgoninn, þá er konungr klæddisk, þá mælti hann
við skósvein sinn: »gak þú, segir hann, til Úlfs jarls U 425
ok drep hann«. Sveinninn gekk ok var á brot um
hríð ok kom aptr. Þá mælti konungr: »draptu jarl?«.
Hann svarar: »eigi drap ek hann, þvíat hann var genginn
til Lúcis-kirkju«. Maðr hét Ívarr hvíti, norrœnn at
kyni; hann var þá hirðmaðr Knúts konungs ok her-
bergis-maðr hans. Konungr mælti til Ívars: »gak þú
ok drep jarl«. Ívarr gekk til kirkju ok inn í kórinn
ok lagði þar sverði í gǫgnum jarl; fekk þar Úlfr jarl
bana. Ívarr gekk til konungs ok hafði sverðit blóðugt O 168
í hendi. Konungr spurði: »draptu nú jarl?«. Ívarr
svarar: »nú drap ek hann«. »Vel gerðir þú þá« kvað H 277
hann. En eptir, þá er jarl var drepinn, létu munkar
læsa kirkju. Þá var þat sagt konungi. Hann sendi
mann til munka, bað þá láta upp kirkju ok syngja
tíðir; þeir gerðu, sem konungr bauð. En er konungr
kom til kirkju, þá skeytti hann jarðir miklar til kirkju,

---

2. jarl þá: *omv. J2.* 4. morgoninn: morginінn *J2* þá*(bis): ul. J2.* 6. á brot: i brott *J2.* 7. Þá—kgr: konungr mælti *J2.* jarl: *med art. J2.* 8. Hann svarar: *ul. J2.* 9. Lúcis: Lucius *J2.* kirkju: *herefter kap. inddel. og overskr.:* Drap Ulfs iarls *J2.* 10—11. hann—hans: *ul. J2.* 11. gak þú: gactu *J2.* 12. inn: innaʀ *J2.* 13. þar*(1): ul. J2.* gǫgnum: gegnom *J2.* fekk þar: let *J2.* 14. bana: þegar lif sitt *J2.* til kgs: fyrir konung *J2.* sverðit blóðugt: *omv. J2.* 15. í hendi: *ul. J2.* spurði: mælti *J2.* nú jarl: iarlinn *J2.* 15—16. Ívarr svarar: segir hann *efter* hann *J2.* 16. nú: *ul. J2.* 16—17. kvað hann: konungr mælti *J2 foran* Vel. 17. þá: þat *J2.* 18. kirkju: *med art. J2 = l. 19. 21 (2).* Þá—kgi: *ul. J2.* Hann: konungr *J2.* 19. mann: menn *J2.* munka: *med art. J2 og tf.* oc. láta upp: upp luca *J2.*

svá at þat er herað mikit, ok hófsk sá staðr mikit síðan; af því hafa þær jarðir þar til legit síðan. Knútr konungr reið síðan út til skipa sinna ok var þar lengi um haustit með allmikinn her.

## K. 154. Frá Óláfi konungi ok Svíum.

*[ÓH (Fms.) k. 152, (Flat.) k. 218.]*

1027 Þá er Óláfr konungr ok Ǫnundr konungr spurði, at Knútr konungr hafði haldit til Eyrarsundz ok hann lá þar með her sinn, þá áttu þeir konungar húsþing. Talaði Óláfr konungr ok segir, at þetta hafði farit at getu hans, at Knútr konungr hafði eigi lengi verit í Ánni helgu — »vætti ek nú, at fleira skal fara eptir getu minni um viðrskipti vár. Hefir hann nú lítit fjǫlmenni hjá því, sem hann hafði í sumar, en hann mun minna hafa síðarr, þvíat eigi er þeim óleiðara en oss at liggja úti á skipum í haust síðan, ok mun oss sigrs auðit, ef oss skortir eigi þrá ok tilræði. Hefir svá farit í sumar, at vér hǫfum haft lið minna, en þeir hafa látit fyrir oss bæði menn ok fé«. Þá tóku Svíar at tala, segja, at þat var ekki ráð at bíða þar vetrar ok frøra — »þótt Norðmenn eggi þess; vita þeir ógǫrla, hver íslǫg kunnu hér at verða, ok frýss haf alt optliga á vetrum. Viljum vér fara heim ok vera hér ekki lengr«. Gerðu þá Svíar kurr mikinn ok mælti hverr í orða-stað annars; var þat af ráðit,

1. er: var *J2.* herað mikit: *omv. J2.* 2. af—síðan*(2)*: *ul. J2.* 3. síðan út: ofann *J2.* var: la *J2.* 5. *Overskr. fra K-mbr.;* fra konungum *J2.* 6. spurði: spurþu *J2.* 7. Eyrar-: Eyra- *J2.* 7—8. ok—þá: *ul. J2.* 8. þeir: *ul. J2.* 9—19. Talaði—ráð: oc taluðu mart um raðagerþir sinar. villdi Olafr konungr at þeir lægi þar með allann herinn oc biþe hvat Knutr konungr tæki til raða enn Sviar qvoðu þat urað *J2.* 20. vetrar ok: *ul. J2.* 20—24. þótt—annars: oc *J2.*

at Ǫnundr konungr ferr þá í brot með alt sitt lið, en Óláfr konungr var þá enn eptir.

## K. 155. Frá Agli ok Tófa.

*[ÓH (Fms.) k. 153, (Flat.) k. 111—113; ÓH (49) k. 53—5; Þáttr Egils ok Tófa.]*

En er Óláfr konungr lá þar, þá átti hann opt 1027
tal ok ráðagǫrð við lið sitt. Þat var eina nótt, at
þeir áttu vǫrð at halda af konungs skipi Egill Hallzson
ok sá maðr, er hét Tófi Valgautsson; hann var kynjaðr
af vestra Gautlandi, ættstórr maðr. En er þeir sátu
á verðinum, þá heyrðu þeir grát ok veinan þar til, H 278
er sat í bǫndum hernumit lið; var þat bundit um
nætr á landi uppi. Tófi segir, at honum þótti ilt at
heyra á gaulan þeira, ok bað Egil, at þeir fœri til at
leysa fólkit ok láta brot hlaupa. Þeir gerðu þetta
sama ráð, fóru til ok skáru bǫndin ok hleypðu á brot
fólki því ǫllu, ok varð þat verk allóvinsælt; konungr U 426
var ok svá reiðr, at þeim helt við váða sjálfan. Ok síðan,
er Egill var sjúkr, þá var þat lengi, at konungr vildi O 169
eigi koma at sjá hann, at margir menn báðu hann.

---

1. ferr—brot: for heim *J2.* alt—lið: allann her sinn *J2.* 2. var—enn: la *J2.* 3. *Overskr. fra K-mbr.;* Leystir herteknir *J2.* 4—5. En—sitt: *ul J2.* 5. eina: einhveria *J2.* 6. vǫrð | at halda: *omv. J2.* af: a *J2.* 7. sá—Tófi: Torfi *J2.* 7—8. hann—maðr: *ul. J2.* 8. En: oc *J2.* 9. þá: *ul. J2.* grát: micinn *tf. J2.* 9—10. veinan—lið: gaulun liþs þess er hertekit var *J2.* 10. var þat: *omv. J2.* 11. Tófi: Torfi *J2.* 12. at þeir—til: fara til með ser *J2.* 13. ok—hlaupa: *ul. J2.* 13—14. Þeir—ok*(1)*: þetta bragð toku þeir *J2.* 14—15. á—varð: i brott folkino var *J2.* 15. allóvinsælt: allvinsælt *(først skr.* -uvin-, *hvad der også står i K, men J3 har* -vin-*)* af folkino enn *J2.* 16. ok: *ul. J2.* þeim: *ul. J2.* 17—18. þá—eigi: villdi konungr lengi ecki *J2.* 18. koma at: *ul. J2.* at*(2)*: fyʀ enn *J2.* hann*(2)*: fyri honum *J2.*

til þess, at svá væri gǫrt, sem þér vilið; þat vita þeir, at ek hefi gǫrt þat, at brenna innin fyrir þeim, ok veitt þeim aðrar stórar refsingar. Gerða ek þá þat, at brenna fyrir þeim, er þeir hǫfðu áðr gengit af trú sinni ok tekit upp blót, en vildu ekki láta at orðum mínum; áttu vér þá guðs réttar at reka. Nú eru þessi dróttinsvik miklu minna verð, þótt þeir haldi eigi trú sína við mik, ok munu þó þessi eigi þykkja vel sama þeim, er manndóms-menn vilja vera. Nú á ek hér nǫkkuru heimilla at veita nǫkkura frían, O 206 H 344 er þeir misgera við mik, en þá er þeir hǫtuðusk við guð. Nú vil ek, at menn fari spakliga ok geri engi hervirki. Vil ek fara fyrst til fundar við bœndr; ok sættumk vér, þá er vel, en ef þeir halda bardaga í móti oss, þá eru þar ii. kostir fyrir hǫndum, ok ef fǫllum í orrostu, þá er því vel ráðit, at fara þangat eigi með ránfé; en ef vér sigrumk, þá skolu þér vera arftǫku-menn þeira, er nú berjask móti oss, þvíat þeir munu þar sumir falla, en sumir flýja ok hafa hvárir-tveggju fyrirgǫrt allri eigu sinni; en þá er gott at ganga til búa stórra, en bœir vegligir, en þess nýtr engi, er brent er; svá ránfé ferr at spjǫllum miklu meiri hluti, en þat er nýtt verðr af. Skolu vér nú fara dreift út eptir byggðinni ok hafa með oss alla vígja menn, þá er vér fám; skolu ok hǫggva

1. þess, at: þott *J2.* 1—2. þat—þat: hefi ec þat oc gert *J2.* 2. innin: *ul. J2.* 3. stórar: *ul. J2.* 3—4. Gerða—er: *ul. J2.* 4. þeir hǫfðu: hæfþu þeir þa *J2.* 6. orðum mínum: *omv. J2.* áttu: attum *J2.* guðs réttar | at reka: *omv. J2.* 7. dróttin-: drottins- *J2.* 7—9. þótt—vera: *ul. J2.* 10. hér—frían: miclu helldr valld a at þola *J2.* 11—12. en—guð: *ul. J2.* 12—13. ok—hervirki: *ul. J2.* 13. Vil—fara: oc vil ec at ver farim *J2.* 14—17. sættumk—þér: halldi þeir .við oss bardaga oc faim ver sigr þa skulum ver *J2.* 18—19. nú—sumir*(2)*: þar falla eðr *J2.* 20. en—er: er þa *J2.* 21. ganga: þar *tf. J2.* 22. engi: maðr *tf. J2 (J3 = K).* 22—25. svá—fám: *ul. J2.* 25. skolu—hǫggva: enn haɢva skulu menn *J2.*

bú eða taka aðra vist, svá sem menn þurfu til at
U 475 fœða sik, en menn geri ekki annat spellvirki. Vel þykki mér, at drepnir sé njósnar-menn bónda, ef þér takið þá. Skal Dagr fara ok hans lið it nørðra ofan eptir dalnum, en ek mun fara út þjóðveginn, ok hittumk at kveldi; hǫfum allir eitt náttból«.

## K. 206. Frá skáldum Óláfs konungs.

*[ÓH (Fms.) k. 192, (Flat.) k. 271, jfr. ÓH (49) k. 88, 89, 91; Fbr. (Hb) k. 24.]*

1030 Svá er sagt, at þá er Óláfr konungr fylkði liði sínu, þá skipaði hann mǫnnum í skjaldborg, er halda skyldi fyrir honum í bardaga, ok valði þar til þá menn, er sterkastir váru ok snarpastir. Þá kallaði hann til sín skáld sín ok bað þá ganga í skjaldborgina —
H 345 »skoluð þér, segir hann, hér vera, ok sjá þau tíðendi, er hér gerask; er yðr þá eigi segjandi saga til, þvíat ér skoluð frá segja ok yrkja um síðan«. Þar var þá Þormóðr Kolbrúnarskáld ok Gizurr gullbrá, fóstri Hofgarðarefs, ok inn iii. Þorfinnr munnr. Þá mælti Þormóðr til Gizurar: »stǫndum eigi svá þrǫngt, lagsmaðr, at eigi nái Sigvatr skáld rúmi sínu, þá er hann kømr; hann mun vera vilja fyrir konungi, ok ekki

1. aðra: þar *J2.* svá: *ul. J2.* þurfu: þurfa *J2.* til: *ul. J2.* 2—4. en—þá: *ul. J2; foran* þá *interpungeres K. 18, 70.* 5. út: *ul. J2.* -veginn: -leið *J2.* 6. hittumk: hittaz *J2.* hǫfum allir: oc hæfum *J2.* 7. *Overskr. fra 18, J2, J3; mgl. K, 70.* 8. þá er: *ul. J2.* 8—9. fylkði—þá: *ul. J2.* 9. hann: *ul. J2.* 10. skyldi: skylldu *J2.* honum: *sål. J2; ul. K (18, 70).* ok valði: valdi hann *J2.* 11. snarpastir: bezt hugaðır *J2.* 11—12. Þá—hann: hann kallaðe *J2.* 12. til sín: *ul. J2.* ok—ganga: *ul. J2.* 13. skoluð: skulu *J2.* hér—ok: *ul. J2.* 14. er*(2)*—til: *ul. J2.* 15. ér: *sål. J2;* þer *K.* frá—ok: *ul. J2.* 16. -brá: -brar *J2 (J3 = K).* 17. inn iii.: *ul. J2.* 19. eigi—sínu: Sighvatr skald hafi ei rum *J2.* 20. vera vilja: *omv. J2.*

mun konungi annat líka«. Konungr heyrði þetta ok svarar: »ekki þarf Sigvati at sneiða, þótt hann sé eigi hér; opt hefir hann mér vel fylgt; hann mun nú biðja fyrir oss, ok mun þess enn allmjǫk þurfa«. Þormóðr segir: »vera má þat, konungr, at þér sé nú bœna mest þǫrf; en þunt myndi vera um merkistǫngina, ef allir hirðmenn þínir væri nú á Rúmavegi; var þat ok satt, at vér tǫlðum þá at því, er engi fekk rúm fyrir Sigvati, þótt mæla vildi við yðr«. Þá mæltu þeir sín á milli, sǫgðu, at þat væri vel fallit, at yrkja áminningar-vísur nǫkkurar um þau tíðendi, er þá mundu brátt at hǫndum berask. Þá kvað Gizurr:

138. Skala óglaðan »ífa«, O 207
(orð fengum þat) borða
búumk við þrǫng á þingi,
þegns dóttir mik fregna,
þótt sigrunnar svinnir
segi vǫn Heðins kvánar;
verum í Ála éli
austr bragningi at trausti.

Þá kvað Þorfinnr munnr aðra vísu: U 476

139. Røkkr at regni miklu
randar garðs ens harða;

---

1—2. heyrði—svarar: mællti *J2.* 2. Sigvati: *fork. K, J2.* 2—3. þótt—hér: *ul. J2.* 3. fylgt: gefiz *J2.* 3—4. mun—enn: manom ver þess *J2.* 5. segir: sv' *J2.* þat: *ul. J2.* nú: *ul. J2.* 6. vera: þa *J2.* 7. nú: *ul. J2.* 8. ok: *ul. J2.* vér—þá: menn tældu *J2.* engi: maðr *tf. J2.* 9. Sigvati: honum *J2.* yðr: þic *J2.* 10. sín—sǫgðu: skalldin *J2.* 10—11. þat—at: þeir mundu *J2.* 12. þá: þar *J2* brátt—berask: geraz *J2.* Gizurr: G. *tf. J3.*

13—20. **138. vísa.** 1. ó-: u- *J2.* 2. fengum: *sål. FJ; jfr. Fms.;* fregni *alle.* 3. búumk: *sål. K;* -umz *J2.* 5. þótt: sott *J2.* sig-: *sål. J2;* sigr- *K, 18, 70.*

21. aðra vísu: *ul. J2.*

22—461 6. **139. vísa.** 2 randar: randa *J2.*

H 346 vill við vísa snjallan
Verdœla lið berjask;
verjum allvald ǫrvan,
ǫlum teitan mǿ sveita,
fellum Þrœndr í Þundar
(þess eggjumk vér) hreggi.

Þá kvað Þormóðr:

140. Ála þryngr at éli,
ǫrstiklandi, miklu,
skyldut skelknir hǫlðar
(skalmǫld vex nú) falma;
búumk við sókn, en slœkni
seggr skyli orð of forðask,
es at geirþingi gǫngum
gunnreifr með Áleifi.

Vísur þessar námu menn þá þegar.

## K. 207. Sálu-gjǫf Óláfs konungs.

*[ÓH (Fms.) k. 193, (Flat.) k. 272, p. 342; ÓH (49) k. 86; Tjodrek k. 19.]*

1030 Síðan bjó konungr ferð sína ok sótti út eptir dalnum; hann tók sér náttból, ok kom þar þá saman alt lið hans, ok lágu um nóttina úti undir skjǫldum sínum. En þegar er lýsti, bjó konungr herinn, fluttisk

---

8. eggjumk: eᴦiom *J2.*

8—15. **140. vísa.** 1. þryngr: *sål. 70;* þreyngr *K;* þrǫngr *J2.* 3. skyldut: *sål. Sievers;* scyldo eigi *K;* skylldu ei *J2.* hǫlðar: *med* d *alle.* 5. búumk: buumz *alle.* 6. of: *sål. J2;* um *K (18, 70).* forðask: oþaz *J2.* 8. -reifr: -reifir *J2.* Áleifi: oleifi *alle.*

16. Vísur þessar[3] | námu menn[2] | . . þegar[1]: *omv. J2 og ul.* þá. 17. *Overskr. fra 18; mgl. K, 70;* Enn fra Olafi konunge *J2.* 19. dalnum: *sål. J2;* dǫlunum *K, 18, 70.* þar: *ul. J2.* 20. hans: þeira *J2.* úti: *ul. J2.* 21. þegar: *ul. J2.* bjó—herinn: *ul. J2.*

þá enn út eptir dalnum, er þeir váru at því búnir. Þá kómu til konungs bœndr mjǫk margir, ok gengu flestir í lið með honum ok kunnu allir eitt at segja, at lendir menn hǫfðu saman dregit her óvígjan, ok þeir ætluðu bardaga at halda við konung. Þá tók konungr margar merkr silfrs ok fekk í hendr einum bóanda ok mælti síðan: »fé þetta skaltu varðveita ok skipta síðan, leggja sumt til kirkna, en sumt gefa kennimǫnnum, sumt ǫlmusu-mǫnnum, ok gefa fyrir H 347
líf ok sál þeira manna, er falla í orrostu ok berjask í móti oss«. Bóndi svarar: »skal fé þetta gefa til sálubótar yðrum mǫnnum, konungr?«. Þá svarar konungr: »þetta fé skal gefa fyrir sál þeira manna, er með bóndum eru í orrostu ok falla fyrir vápnum várra manna; en þeir menn, er oss fylgja í orrostu ok þar falla, þá munu vér bjargask at allir saman«.

## K. 208. Frá Þormóði Kolbrúnarskáld. U 477

*[ÓH (Fms.) k. 194, (Flat.) k. 273; ÓH (49) k. 88, 91; Fbr. (Hb) k. 24.]*

Þá nótt, er Óláfr konungr lá í samnaðinum ok 1030
áðr er frá sagt, vakði hann lǫngum ok bað til guðs

1. þá—út: konungr upp *J2.* er—búnir: *ul. J2.* 3. flestir: *ul. J2.* ok—segja: sagðu þeir *J2.* 4. hǫfðu—dregit: drǫgi saman *J2.* her óvígjan: *omv. J2.* 5. þeir—kg: ætla i mot konunginom *J2.* 7. bó-: bu- *J2.* 7—8. síðan—síðan: at hann scylldi scifta oc *J2.* 8—9. gefa kennimǫnnum: til kennimanna *J2.* 9. ok: *ul. J2.* 10. líf ok: *ul. J2.* 11. móti: mot *J2.* Bóndi: buandi *J2.* 11—12. til sálubótar: fyrir sal *J2.* 12. kgr: *ul. J2.* Þá: *ul. J2 og omv.* kgr sv'. 14. í orrostu: *ul. J2.* 15. oss fylgja: með mer beriaz *J2.* 16. munu: manom *J2.* at: *ul. J2.* 17. *Overskr. fra 18; mgl. K*, *70;* skemtan þormoðar *(fork.) J2 (og skr.* skemt*), J3.* 18—19. ok—sagt: *ul. J2.*

fyrir sér ok liði sínu ok sofnaði lítt; rann á hann hǫfgi móti deginum; en er hann vaknaði, þá rann dagr upp. Konungi þótti heldr snemt at vekja herinn; þá spurði hann, hvar Þormóðr skáld væri. Hann var þar nær ok svarar, spurði, hvat konungr vildi honum. Konungr segir: »tel þú oss kvæði nǫkkut«. Þormóðr settisk upp ok kvað hátt mjǫk, svá at heyrði um allan herinn; hann kvað Bjarkamál in fornu, ok er þetta uphaf:

O 208 141. Dagr es upp kominn,
dynja hana fjaðrar,
mál es vílmǫgum
at vinna erfiði;
vaki æ ok vaki
vina hǫfuð,
allir enir œztu
Aðils of sinnar.

142. Hár enn harðgreipi,
H 348 Hrólfr skjótandi,
ættum góðir menn.
þeir 's ekki flýja,
vekka yðr at víni
né at vífs rúnum,
heldr vek ek yðr at hǫrðum
Hildar leiki.

Þá vaknaði liðit, en er lokit var kvæðinu, þá þǫkkuðu menn honum kvæðit, ok fannzk mǫnnum mikit um ok þótti vel til fundit ok kǫlluðu kvæðit Húskarlahvǫt. Konungr þakkaði honum skemtan sína; síðan tók konungr gullhring ok stóð hálfa mǫrk ok gaf Þormóði.

---

1. liði sínu: *omv. J2.* ok*(2)*—lítt: *ul. J2.* 1—2. rann—hann | hǫfgi: *omv. J2.* 2. móti: imot *J2 (*imoti *J3).* en: oc *J2.* 2—3. þá—snemt: þotti honum ofsnimt *J2.* 4—6. spurði—oss: bað hann þormoð telia þeim *J2.* 6. nǫkkut: nockort *J2.* 7—8. settisk—kvað: hof upp *J2.* 8. fornu: oc q. sva hatt at—herinn *(= K) tf. J2.* 9. uphaf: at qvæðinu *tf. J2.*

10—17[a]. **141. vísa.** 5. æ ok: *omv. J2.* 7. œztu: agæztu *J2.* 8. of: vm *K;* oc *J2.*

10—17[b]. **142. vísa.** 1. enn: *sål. J2;* hin *K.* 3. ættum: hættum *J2.* 4. 's: er *alle.* ekki: eigi *J2 (*ēi *J3).* 5. vekka: ek *tilf. alle.*

18. en: oc *J2.* þá: *ul. J2.* 19. kvæðit—um: *ul. J2.* 20. ok*(2)*: *ul. J2.* 21. honum: þormoði vel *J2.* 21—22. síðan—kgr: oc toc *J2.* 22. ok*(1)*: er *J2.* Þormóði: honum *J2.*

Þormóðr þakkaði konungi gjǫf sína ok mælti: »góðan eigum vér konung, en vant er nú at sjá, hversu langlífr konungr verðr; sú er bœn mín, konungr, at þú látir okkr hvárki skiljask lífs né dauða«. Konungr svarar: »allir munu vér saman fara, meðan ek ræð fyrir, ef þér vilið eigi við mik skiljask«. Þormóðr mælti: »þess vætti ek, konungr, hvárt sem friðr er betri eða verri, at ek sjá nær yðr staddr, meðan ek á þess kost, hvat sem vér spyrjum til, hvar Sigvatr ferr með gullinhjaltann«. Síðan kvað Þormóðr:

143. Þér munk eðr unz ǫðrum, U 478
allvaldr, náið skǫldum;
(nær vættir þú þeira?)
þingdjarfr, fyr kné hvarfa;
braut komumk vér, þó at veitim
valtafn frekum hrafni,
(víksk eigi þat) vága
viggruðr, eða hér liggjum.

## K. 209. Dráp Hrúts af Viggju.

*[ÓH (Fms.) k. 195, (Flat.) k. 274; Fsk. k. 109; ÓH (49) k. 85, jfr. 86, 90, 91.]*

Óláfr konungr flutti herinn út eptir dalnum. H 349 1030

1. kgi—sína: vel *J2*. 2. kg: *med art. J2*. 3. kgr*(1): ul. J2*. verðr: enn *tf. J2*. bœn: bǿn *K. (*bon *18, 70); b*ǫn *J2*. 5. svarar: mælti *J2*. munu: manom *J2*. 5—6. meðan—fyrir: ef ec skal raða *J2*. 6. eigi—skiljask: mer fylgia *J2*. 6—7. Þormóðr mælti: *sål. K;* þa mælti þormoðr *18, 70*. 6—10. Þormóðr—hjaltann: *ul. J2*. 10. Síðan: þa *J2*. Þormóðr: visu *tf. J2*.

11—18. **143. vísa.** 1. munk: mun ek *alle*. eðr: enn *alle*. 2. náið: nair *J2*. 3. vættir: væntir *J2*. 4. fyr: *sål. J2 (fork.);* um *K (18, 70)*. 5. braut: brott *J2*. komumk: komumz *alle*. 7. víksk: vikz *J2;* viz *K (18, 70)*. 8. hér: þar *J2*.

*Her har J2 ingen kap. inddel.* 19. *Overskr. fra det følg. kap. i J2 (der dog har:* viǫiom*); mgl. K, 18, 70*. 20. herinn: her sinn *J2*. út: upp *J2*.

Fór þá enn Dagr með sínu liði aðra leið. Konungr létti eigi ferð sinni, áðr hann kom út á Stiklarstaði. Þá sá þeir her bónda, ok fór þat lið dreift mjǫk, ok var svá mikill fjǫlði, at af hverjum stíg dreif liðit, en víða þar, er stórflokkar fóru saman. Þeir sá, hvar sveit manna fór ofan ór Veradal, ok hǫfðu þeir á njósn verit ok fóru nær því, sem lið konungs var, ok fundu eigi fyrr en skamt var í milli þeira, svá at menn máttu kennask. Þar var Hrútr af Viggju með xxx. manna. Síðan mælti konungr, at gestir skyldu fara at móti Hrúti ok taka hann af lífi. Váru menn þess verks fljótir. Þá mælti konungr til þeira Íslendinga: »svá er mér sagt, at þat sé siðr á Íslandi, at bœndr sé skyldir á haustum at gefa húskǫrlum sínum slaga-sauð; nú vil ek þar gefa yðr hrút til slátrs«. Þeir inir íslenzku váru þess verks auðeggjaðir ok fóru þegar at Hrúti með ǫðrum mǫnnum; var Hrútr drepinn ok ǫll sveit sú, er honum fylgði. Konungr nam staðar ok stǫðvaði her sinn, er hann kom á Stiklastaði. Bað konungr menn stíga af hestum
O 209 ok búask þar um; menn gerðu sem konungr mælti.

---

1. Fór—leið: *efter* Stiklarstaði *l. 2 J2 og omv.*: Dagr þá enn. 1—2. Kgr—áðr: þar til er *J2*. 2. út: *ul. J2*. *Efter* Fór—leið *(jfr. anm. til 1) er kap. inddel. i J2 med den over dette kap. stående overskrift.* 3. Þá: er Olafr konungr var kominn a Sticlastaði *(sål. her) tf. J2*. ok*(1)*—mjǫk: *ul. J2*. 5. þar: þat *J2*. 6. sveit: flockr *J2*. ok: *ul. J2*. hǫfðu þeir: *omv. J2*. 6—7. á njósn | verit: *omv. J2*. 7. fóru: sva *tf. J2*. sem lið: er her *J2*. 7—9. ok*(2)*—kennask: at þeir kenduz *J2*. 9. Þar var: *omv. J2*. Viggju: vigiom *J2*. 11. at móti: mot *J2*. 11—16. Váru—slátrs: *ul. J2*. 16. inir íslenzku . . . verks: *ul. J2*. 17—18. ok—fylgði: foru i mot honum oc tocu hann af lifi oc allt hans foruneyti *J2*. 19. nam—ok: *ul. J2*. her sinn: herinn *J2*. 20. Stikla-: *sål. alle undt. J3:* Sticlar-. 20—21. Bað—ok: oc bað menn *J2*. 21. menn gerðu: sva gerþu menn *J2*.

Síðan var skotit á fylking ok sett upp merkin. Dagr var þá enn eigi kominn með sitt lið, ok misti þess fylkingar-armsins. Þá mælti konungr, at þeir Upplendingar skyldu þar fram ganga ok taka upp merkin — »þykki mér þat ráð, segir konungr, at Haraldr, bróðir minn, sé eigi í orrostu, þvíat hann er barn at aldri«. Haraldr svarar: »ek skal vera at vísu í orrostu, en
ef ek em svá ósterkr, at ek má eigi valda sverðinu, H 350
þá kann ek þar gott ráð til, at binda skal hǫndina
við meðalkaflann; engi skal vera viljaðr betr en ek U 479
at vera óþarfr þeim bóndunum; vil ek fylgja sveitungum mínum«. Svá segja menn, at Haraldr kvað þá vísu þessa:

144. Þora munk þann arm verja,
þat 's ekkju munr nekkvat,
(rjóðum vér af reiði
rǫnd) es ek í hlýt standa;
gengra greppr enn ungi
gunnblíðr, þars slǫg ríða
(herða menn) at morði,
(mót) á hæl fyr spjótum.

Haraldr réð því, at hann var í orrostu.

---

1. merkin: *ud. art. J2.* 3. -armsins: *ud. art. J2.* þeir· *ul. J2.* 4. skyldu: skylldi *J2.* fram: up *J2.* taka—merkin: taki merki up *J2.* 5—6. bróðir minn | sé—orrostu: *omv. J2 og skr.* bardaga. 6. þvíat: *ul. J2.* hann er: *omv. J2.* 7. vera: *efter* orrostu *J2.* 9. kann—skal: skal binda *J2.* 10. vera: *ul. J2.* viljaðr betr: *omv. J2.* en ek: *ul. J2.* 11. óþarfr—bóndunum: bondum oþarfr *J2.* 12. Svá—þá: þa q: Haraldr *J2.*

14—21. **144. vísa.** 1. munk: mun ec *alle.* 2. 's: er *alle.* nekkvat: nockoʀ *J2.* 5. -a: at *J2.* enn: *sål. J2;* hiɴ *K.* 6. þars: þar er *alle.*

22. því: *ul. J2.*

## K. 210. Frá Þorgilsi Hálmusyni.

*[ÓH (Fms.) k. 196, (Flat.) k. 275; ÓH (49) k. 91.]*

1030 Þorgils Hálmuson er maðr nefndr, bóndi sá, er bjó á Stiklarstǫðum, faðir Gríms góða. Þorgils bauð konungi liðsemð sína ok vera í bardaga með honum. Konungr bað hann hafa þǫkk fyrir boð sitt — »en ek vil, segir konungr, at þú, bóandi, sér eigi í bardaga; veit oss heldr hitt, at bjarg mǫnnum várum eptir bardaga, þeim er sárir eru, en veit hinum umbúnað, er falla í orrostu; svá, ef þeir atburðir verða, bóandi, at ek fell í bardaga þessum, veit þá þjónostu líki mínu, sem nauðsyn berr til, ef þér er þat eigi bannat«. Þorgils hét þessu konungi, sem hann beiddi.

H 351 
## K. 211. Tala Óláfs konungs.

*[ÓH (Fms.) k. 197, (Flat.) k. 276.]*

1030 En er Óláfr konungr hafði fylkt liði sínu, þá talaði hann fyrir þeim, mælti svá, at menn skyldu herða hugi sína ok ganga djarfliga fram — »ef orrosta verðr, segir hann; hǫfum vér lið gott ok mikit, en þótt bœndr hafi lið meira nǫkkuru, þá mun auðna

1. *Overskr. fra 18, J2 (der dog skr.* Hialm- = *J3); mgl. K, 70.* 2. Hálmu-: Hialmu- *J2.* er—sá: het sa buandi *J2.* er*(2):* þa *tf. J2.* 3. Stiklar-: *sål. J2;* Stikla- *K.* -stǫðum: hann var *tf. J2.* Þorgils: hann *J2.* 4. ok: at *tf. J2.* 5. bað—fyrir: þackaðe honum *J2.* 6. kgr: hann *J2.* bóandi: *ul. J2.* 7. bjarg: þu biarga *J2 (*biarg *J3).* várum: minom *J2.* 8. bardaga: *med art. J2.* 9. atburðir: kunna *(*kunnu *J3)* at *tf. J2.* bóandi: *ul. J2.* 10. fell: falli *J2 (J3 = K).* bardaga þessum: oʀosto *J2.* þjónostu: buandi umbunað *J2.* 11. sem: þann er *J2.* þat: *ul. J2.* 12. kgi: *ul. J2.* hann: konungr *J2.* 13. *Overskr. fra 18, J2; mgl. K, 70.* 14. En: Þa *J2.* þá: *ul. J2.* 15. þeim: monnum oc *J2.* 15—16. at—ganga: Nu er þat til at menn herði hugina oc gangi *J2.* 17. verðr—hann: skal verða *J2.* lið—en: mikit lið oc fritt *J2.* 18. lið meira: *omv. J2 og ul.* nǫkkuru.

ráða sigri. Er því fyrir yðr at lýsa, at ek mun eigi flýja ór orrostu þessi; skal ek annat hvárt sigrask á bóndum eða falla í orrostu. Vil ek þess biðja, at sá hlutr komi upp, er guð sér, at mér gegnir bezt. Skolum vér því treystask, at vér hǫfum réttara at mæla en bœndr, ok því þar með, at guð myni oss frelsa eigur várar eptir orrostu þessa, en elligar veita oss miklu meiri laun fyrir þat lát, er vér fám hér, en vér kunnim sjálfir at œskja oss. En ef ek hlýt um at mæla eptir orrostu, þá skal ek gœða yðr hvern U 480 eptir sínum verðleikum ok því, hvernug hverr gengr fram í orrostu; mun þá, ef vér hǫfum sigr, vera gnógt bæði lǫnd ok lausir aurar at skipta því með yðr, er nú fara með áðr óvinir várir. Veitum sem harðasta atgǫngu ina fyrstu, þvíat skjótt mun um skipta, ef liðs-munr er mikill; eigum vér sigrs ván af O 210 skjótum atburðum; en hitt mun oss þungt falla, ef vér berjumk til mœði, svá at menn verði fyrir því óvígir; munu vér eiga minna deilðar-lið en þeir, er ýmsir ganga fram, en sumir hlífask ok hvílask. En ef vér gerum svá harða hríðina, at þeir snúa undan,

---

3. í orrostu: ella *J2*. 4. bezt: betr *J2*. 5. réttara: rett *J2 og ul.* en bœndr. 6. myni: mun *og tf.* eptir bardaga þenna *J2 og ul. det følg.* eptir—þessa. 6—7. oss frelsa: *omv. J2 og tf.* oc; *dette sidste tf. også 70 (men ikke K, 18;* oss *her altså dativ).* 7. elligar: ella *J2*. 8. þat—hér: lán var, þa*r* er ver latum her i heime *J2*. 9. kunnim—oss: kunnum at beiða *J2*. 10. eptir orrostu: *ul. J2*. yðr: *ul. J2*. 11. ok: eptir *tf. J2*. hvernug: sem *J2*. 12. orrostu: bardaganum *J2*. þá: *ul. J2*. 13. lausir aurar: la*u*sa fe með yðr *J2*. 13—14. því—yðr: þa*r* *J2*. 14. áðr: *ul. J2*. óvinir várir: *omv. J2*. 14—15. sem harðasta[3] | atgǫngu[2] | ina fyrstu[1]: *omv. J2*. 16. skipta: raða *J2*. 18. fyrir: af *J2*. 19. munu: munom *J2*. þeir: hinir *J2*. 20. hlífask ok: *ul. J2*. hvílask: meþan *tf. J2*. 21. harða: ena fyrstu *tf. J2*.

er fremstir eru, þá mun hverr falla yfir annan, ok
H 352 verða þeira ófarar þess at meiri, er þeir eru fleiri saman«. En er konungr hætti rœðunni, þá gerðu menn mikinn róm at máli hans ok eggjaði hverr annan.

## K. 212. Frá Þórði Fólasyni.

*[ÓH (Fms.) k. 198, (Flat.) k. 277.]*

Þórðr Fólason bar merki Óláfs konungs; svá segir Sigvatr skáld í erfidrápu þeiri, er hann orti um Óláf konung ok stælti eptir Upreistarsǫgu:

145. Þórð frák þat sinn herða
(þreifsk sókn) með Áleifi,
góð fóru þar, geirum
gǫrt víg, saman hjǫrtu;
stǫng bar hátt fyr Hringa
hjaldrmóðum gram bróðir
(fullt vann) fagrla gylta
(framlundaðr) Ǫgmundar.

## K. 213. Frá búnaði Óláfs konungs.

*[ÓH (Fms.) k. 199, (Flat.) k. 277; ÓH (49) k. 91; jfr. Ágr. k. 25.]*

1030 Óláfr konungr var svá búinn, at hann hafði hjálm gyltan á hǫfði, en hvítan skjǫld ok lagðr á

1. eru: standa *J2.* yfir: um þverann *J2.* ok: munu *tf. J2 og stiller* verða *efter* ófarar. 2. þess at: þvi *J2.* er: sem *J2.* 3. rœðunni: ræðu sinne *J2.* þá: *ul. J2.* 4. mikinn —hans: at goðan rom *J2.* 5. *Overskr. fra 18, J2; mgl. K, 70.* 7. segir: q: *J2.* skáld: *ul. J2.* 8. ok—Upr.s.: *ul. J2.*

9—16. **145. vísa.** 1. frák: fra ek *alle.* 2. Áleifi: oleifi *alle.* 7. vann: oc *J2.*

17. *Overskr. fra 18; mgl. K, 70;* fra buninge (Olafs *tf. J3)* konungs *J2.* 18. at: *ul. J2.* 19. gyltan: gullroðinn *J2.*

með gulli kross inn helgi; í annarri hendi hafði hann kesju þá, er nú stendr í Kristskirkju við altara; hann var gyrðr sverði því, er Hneitir var kallat, it bitrasta sverð, ok gulli vafiðr meðalkaflinn; hann hafði hringa-brynju; þess getr Sigvatr skáld:

146. Ǫld vann Áleifr felda H 353
(opt vann sigr) enn digri,
gekk (sóknþorinn) sœkja
synjór fram í brynju;
en, þeir 's austan nenna,
(óx hildr) með gram mildum
(mart segik bert) í bjarta
blóðrǫst, Svíar, óðu.

### K. 214. Draumr Óláfs konungs. U 481

*[ÓH (Fms.) k. 200, (Flat.) k. 277; ÓH (49) k. 89; jfr. Norsk Hom. p. 149; Tjodrek k. 19.]*

En er Óláfr konungr hafði fylkt liði sínu, þá váru bœndr enn hvergi nær komnir. Þá mælti konungr, at liðit skyldi niðr setjask ok hvíla sik. Settisk konungr þá sjálfr niðr ok alt lið hans ok sátu rúmt; hann hallaðisk ok lagði hǫfuðit í kné Finni Árnasyni. Þá

1. með gulli . . . inn helgi: *omv. J2.* 2. í Kr.kirkju | við altara: *omv. J2 og skr.* crist- *og* altari. 4. hafði: var i *J2.* 5. þess getr: sva q: *J2.* skáld: *ul. J2.*

6—13. **146. vísa.** 1. Áleifr: Olaf *J2;* Olafr *K.* felda: felldan *J2.* 2. opt vann: *sål. Fms.;* ǫflgan *alle.* enn: *sål. J2;* IN *K.* 3. sœkja: sǫcku *J2.* 4. synjór: *med* i *alle, undt. 18 (hvad der dog er uden betydning).* 5. þeir: þar *J2.* 's: er *alle.* nenna: runno *J2.* 7. segik: segi ec *K;* sveif *J2.*

14. *Overskr. fra 18; mgl. K, 70;* Vitrun *J2.* 15. En: Þa *J2.* þá: *efter* bœndr *J2.* 16—17. komnir—sik: *ul. J2.* 17—18. Settisk—hann: setz þa niðr allr herinn konungrinn *J2.* 19. ok—kné: at *J2.* Árnas.: oc lagþe hæfuð i kne honum *tf. J2.* Þá: oc *J2.*

rann á hann svefn ok var þat um hríð. Þá sá þeir
her bónda, ok sótti þá liðit til móts við þá ok hǫfðu
upp sett merki sín, ok var þat inn mesti múgr mannz.
Þá vakði Finnr konung ok segir honum, at bœndr
sóttu þá til þeira. En er konungr vaknaði, mælti
hann: »hví vakðir þú mik, Finnr, ok lézt mik eigi
njóta draums míns?«. Finnr svarar: »ekki mundi
þik þat dreyma, at eigi myndi skyldra at vaka ok
búask við hernum, er at oss ferr; eða sér þú eigi,
hvar nú er kominn bónda-múgrinn?«. Konungr svarar:
»ekki eru þeir enn svá nær oss, at eigi væri betr,
at ek hefða sofit«. Þá mælti Finnr: »hvat dreymði
þik, konungr, þess, er þér þykkir svá mikil missa í,
O 211 er þú vaknaðir eigi sjálfr?«. Þá segir konungr draum
sinn, at hann þóttisk sjá stiga háfan ok ganga þar
eptir í lopt upp, svá langt, at himininn opnaði, ok
þangat var stiginn til — »var ek þá, segir hann,
H 354 kominn í øfsta stig, er þú vakðir mik«. Finnr svarar:
»ekki þykki mér draumr sjá svá góðr, sem þér mun
þykkja; ætla ek þetta munu vera fyrir feigð þinni,
ef þat er nǫkkut annat en svefnórar einar, er fyrir
þik bar«.

1. var þat: svaf hann *J2*. 2. bónda: boanda *J2*. sótti—þá*(2)*: atti scamt til þeira *J2*. 3. ok—mannz: *ul*. *J2*. 4—5. ok—þeira: *ul*. *J2*. 5. kgr: *med art*. *J2*. 7. svarar, ekki: mælti æigi *J2* (ēı *J3*) 8. þat: þess *J2*. vaka ok: *ul*. *J2*. 9. hernum: herinom *J2*. at—ferr: kominn er nær at os *J2*. 9—12. sér—Finnr: *ul*. *J2*. 11. væri: væra *K*. 13. kgr, þess: *ul*. *J2*. þykkir: þotti *J2*. mikil—í: mikill afsakni *J2*. 14—15. draum sinn: *ul*. *J2*. 16. langt: at hann þottiz sia *tf*. *J2*. himininn opnaði: himinn opnaðiz *J2*. 17. segir hann: *ul*. *J2*. 18. í: et *tf*. *J2*. 19—20. sem—þykkja: *ul*. *J2*. 21. nǫkkut: nockvat *J2*. 21—22. einar—bar: *ul*. *J2*.

## K. 215. Skírðr Arnljótr gellini.

*[ÓH (Fms.) k. 201, (Flat.) k. 278; ÓH (49) k. 88 fin.]*

Enn varð sá atburðr, þá er Óláfr konungr var 1030
kominn á Stiklastaði, at maðr einn kom til hans. En
þat var eigi af því undarligt, at margir menn kómu
til konungs ór heruðum, en því þótti þat nýnæmi, at
þessi maðr var ekki ǫðrum líkr, þeim er þá hǫfðu
til konungs komit. Hann var maðr svá hár, at engi
annarra tók betr en í ǫxl honum; hann var allfríðr
maðr sýnum ok fagrhárr; hann var vel vápnaðr, hafði U 482
hjálm allfríðan ok hringa-brynju, skjǫld rauðan ok
gyrðr með sverði búnu, hafði í hendi gullrekit spjót
mikit ok svá digrt skaptit, at handfyllr var í. Sá
maðr gekk fyrir konung ok kvaddi hann ok spurði,
ef konungr vildi þiggja lið at honum. Konungr spurði,
hvert nafn hans væri eða kynferð, eða hvar hann
var landz-maðr. Hann svarar: »ek á kyn á Jamta-
landi ok Helsingjalandi; ek em kallaðr Arnljótr gellini;
kann ek yðr þat helzt frá at segja, at ek veitta forbeina
mǫnnum þínum, þeim er þér senduð til Jamtalandz
at heimta þar skatt; fekk ek þeim í hendr silfrdisk,
er ek senda yðr til jartegna, at ek vilda vera vinr
yðarr«. Þá spurði konungr, hvárt Arnljótr væri

---

1. *Overskr. fra 18; mgl. K, 70;* fra Arnlioti Gellina *J2.* 2. Enn—atburðr: Sa atburðr varþ *J2.* 3. Stikla-: *sål. alle:* 3—7. En—komit: *ul. J2.* 7. Hann—hár: hann var miclo meiri enn aðrir menn sva *J2.* 8. annarra: *ul. J2.* 8—9. allfríðr maðr: manna friðaztr *J2.* 9. fagrhárr—var: all- *J2.* 9—10. hafði—-brynju: hann hafþi *J2.* 11. með: *ul. J2.* búnu, hafði: oc *J2.* í hendi . . . spjót: *omv. J2 og ul.* mikit. 12. Sá: Sia *J2.* 14. kgr: hann *J2.* lið: liþsemd *J2.* 15—16. eða*(2)*—svarar: *ul. J2.* 18. frá: *ul. J2.* segja: til iartegna *tf. J2.* 19. þínum: yðrum *J2.* til J.: a Jamtaland *J2.* 20. þar: *ul. J2.* ek: *ul. J2.* 21. -tegna: -teina *J2.* vinr: vin *J2.* 22. Þá—kgr: konungr spurþe *J2.*

kristinn maðr eða eigi. Hann segir þat frá átrúnaði sínum, at hann trýði á mátt sinn ok megin — »hefir mér sá átrúnaðr unnizk at gnógu hér til; en nú ætla
H 355 ek heldr at trúa á þik, konungr«. Konungr svarar: »ef þú vill á mik trúa, þá skaltu því trúa, er ek kenni þér; því skaltu trúa, at Jésús Kristr hefir skapat himin ok jǫrð ok menn alla, ok til hans skolu fara eptir dauða allir menn, þeir er góðir eru ok réttrúaðir«. Arnljótr svarar: »heyrt hefi ek getit Hvítakrists, en ekki er mér kunnigt um athǫfn hans eða hvar hann ræðr fyrir; nú vil ek trúa því ǫllu, er þú segir mér; vil ek fela á hendi þér alt mitt ráð«. Síðan var Arnljótr skírðr; kendi konungr honum þat af trúnni, er honum þótti skyldast vera, ok skipaði honum í ǫndverða fylking ok fyrir merki sínu. Þar var fyrir Gaukaþórir ok Afrafasti ok sveitungar þeira.

---

1. maðr—eigi: *ul. J2.* 1—2. átrúnaði sínum: trv sinne *J2.* 2. megin: oc *tf. J2.* 3. sá átrúnaðr: þat her til *J2.* gnógu: nogu *J2.* hér til: *ul. J2.* 4. heldr: *ul. J2.* at: ec muna *tf. J2.* svarar: mællti *J2.* 5. vill: villt *J2.* þá: *hermed beg. et brudst. (blad) i Stockh. 6—7 okt., herefter betegnet S.* því trúa: *omv. J2.* er: sem *S.* 6. því: *ul. J2.* 7. jǫrð· ok alla lvti stora ok sm . . ok þar . . . kyquendi avll *tf. S.* skolu: allir *tf. S og ul. det følg.* allir menn. 7—8. fara . . . | allir menn: *omv. J2 og ul.* eptir dauða (dauðan*n* *skr. S).* 8. er: sem *S.* góðir: me*nn* *tf. S.* ok réttrúaðir: *ul. J2.* 10. athǫfn: at høfi *S.* 11. nú: *ul. J2.* trúa | því ǫllu· *omv. J2.* er: sem *S.* segir: byðr *S.* 12. vil ek: oc *J2.* vil—fela: ok fel ek *S.* á hendi | þér: *omv. J2 og skr.* hendr *(sål. også 18, 70; J3 = K).* á hendi[4] | þér[3] | alt[2] | mitt ráð[1]: *omv. S.* 13. skírðr: ok *tf. S.* 13—14. kendi—vera: *ul. J2.* 14. er: sem *S.* skipaði: konungr *tf. J2.* 15. ·verða: -urða *J2.* ok: *ul. J2.* var fyrir: var oc *J2; varv þeir S.* 16. sveitungar þeira: *omv. J2, S.*

## K. 216. Frá samnaði í Nóregi.

*[ÓH (Fms.) k. 202. (Flat.) k. 279; ÓH (49) k. 89; jfr. Fsk. k. 109, Norsk Hom. p. 149; Tjodrek k. 19.]*

Frá því er nú at segja, er áðr var frá horfit, at 1030
lendir menn ok bœndr hǫfðu saman dregit her óvígjan, þegar er þeir spurðu, at konungr var austan farinn ór Garðaríki ok hann var kominn til Svíþjóðar. En er þeir spurðu, at konungr var austan kominn til Jamtalandz ok hann ætlaði at fara austan um Kjǫl til Veradals, þá stefndu þeir herinum inn í Þrándheim U 483 O 212
ok sǫmnuðu þá saman þar allri alþýðu, þegn ok þræl, ok fóru svá inn til Veradals ok hǫfðu þar svá mikit lið, at engi maðr var sá þar, er í Nóregi hefði sét jammikinn her saman koma. Var þar, sem jafnan kann verða í miklum her, at lið var allmisjafnt; þar var mart lendra manna ok mikill fjǫlði ríkra bóanda, en þó var hitt allr múgr, er váru þorparar ok verk- H 356
menn; ok var þat allr meginherrinn, er þar hafði saman

1. *Overskr. fra 18; mgl. K, 70, S;* fra bondum *J2 (*lendum monnum *J3).* 2. Frá því . . nú: *omv. J2.* er áðr: se(m) aðan *S.* 3. lendir--ok: *ul. S.* her óvígjan: *omv. S.* 4. spurðu: havfðv spvrt *S.* at: Olafr *tf. J2, S.* farinn: kominn *J2, S.* 5. hann—kominn: *ul. S.* hann—En: *ul. J2.* 6. kgr: hann *J2, S.* austan: *ul. J2.* 6—7. til J.: a Jamtaland *J2 (J3 = K).* 7. at fara: *ul. J2.* Kjǫl: Kiolu *J2.* 8. þeir: saman *tf. S.* í Þr.: til þrandheims *J2;* -heimi *skr. S.* 9. þá: *ul. J2.* saman þar: *omv. J2.* þar: *ul. S* þegn ok þræl: *ul. J2.* 10—11. ok(2)—er: var eingi sa maðr *S.* 11. lið: fiolmenni *J2.* var—sét: þottiz set hafa *J2.* Nóregi: at þ*ar* *tf. S.* 12. jam-: iamn- *J2.* jammikinn her: iafnmikit lið *efter* koma *S og tf.* sem þ*eir* havfðv. koma: kominn *J2.* 12—14. sem—var: *ul. J2.* 13. í—her: *ul. S.* lið: liðit *S.* 14. mart: mikill fiolði *S* mikill fjǫlði: mvgr *S.* mikill . . . ríkra: *ul. J2.* 15. allr múgr: mestr fiolði *S.* 16—$475_1$. ok—Þrh.: *ul. J2.* 16. ok: *ul. S.* þar: *ul. S.* 16—$475_1$. hafði—samnazk | í Þrh: *omv. S.*

samnazk í Þrándheimi; var þat lið allmjǫk geyst til fjándskapar við konung.

### K. 217. Frá Sigurði byskupi.

*[ÓH (Fms.) k. 203, (Flat.) k. 280.]*

1030 Knútr inn ríki hafði lagt undir sik land alt í
p.395-6 Nóregi, sem fyrr var ritat, ok þat með, at hann setti til ríkis Hákon jarl. Hann fekk jarli hirðbyskup þann, er Sigurðr er nefndr; var hann danskr at kyni ok hafði lengi verit með Knúti konungi. Var byskup sá ákafa-maðr í skapi ok sundrgǫrða-maðr í orðum sínum; veitti hann Knúti konungi orða-fullting, alt þat er hann kunni, en var inn mesti óvinr Óláfs konungs. Sá byskup var í her þessum ok talaði optliga fyrir bóanda-liði ok eggjaði mjǫk upreistar móti Óláfi konungi.

### K. 218. Tala Sigurðar byskups.

*[ÓH (Fms.) k. 204, (Flat.) k. 280.]*

1030 Sigurðr byskup talaði á einu húsþingi, þar sem þá var mikit fjǫlmenni; hann tók svá til orða: »hér

---

1. þat: þetta *J2.* lið: *eigi tf. S.* 1—2. til—kg: i fiandscap við Olaf konung ok til motgangs *J2.* 2. kg: *med art. S.* 3. *Overskr. fra 18, J2; mgl. K, 70, S.* 4. Knútr: konungr *tf. J2, S.* 4—5. lagt—Nóregi: allt land i Noregi lagt undir sic sva *J2.* 5. var: er *J2.* þat—hann *ul. J2.* setti: þar *tf. S.* 6. til ríkis | H. j.: *omv. J2 og tf.* þar *efter* jarl. jarli: honum *J2, S.* hirðbyskup þann: *omv. S;* -prest *skr. J2.* 7. er . . er nefndr: sem . . het *S.* var hann: *omv. J2, S.* 8. lengi verit: *omv. J2.* 8—9. Var—sá: Byskvp þessi *var S;* sá *ul. J2.* 9. í skapi: *ul. S.* -maðr: mikill *tf. S.* 10. sínum: *ul. J2.* hann: *ul S.* 11. er: sem *S.* kunni: matti *J2;* matti ok h*ann* kvn*ni S.* en—kgs: *ul. J2.* óvinr: vvin *S.* 12. her þessum: *omv. S.* 12—13. ok—-liði: *ul. J2.* 12. optliga: lavngv*m S.* 13. bóanda-liði: bøndv*m S.* móti. i moti *J2.* 14. *Overskr. fra 18, J2; mgl. S; ingen kap. inddel. i K, 70, hvilket vistnok er urigtigt.* 15—16. þar—fjǫlmenni: *ul. S;* fyri monnum *J2.* 16. hann—orða: ok *mælti sva S.*

er nú saman komit mikit fjǫlmenni, svá at í þessu fátœkja landi mun eigi kostr at sjá meira her innlenzkan: skyldi yðr nú vel í hald koma þessi styrkr fjǫlmennis, þvíat nú er œrin nauðsyn til, ef Óláfr þessi ætlar enn eigi af at láta at herja á yðr; vanðisk hann því þegar á ungaaldri at ræna ok drepa menn ok fór til þess víða um lǫnd; en at lykðum snøri H 357 hann hingat til landz ok hóf svá upp, at hann óvingaðisk mest þeim, er beztir menn váru ok ríkastir, Knúti konungi, ok allir eru skyldastir at þjóna, sem kunnu, ok settisk hann í skattland hans. Slíkt sama U 484 veitti hann Óláfi Svía-konungi, en jarlana Svein ok Hákon rak hann á brot af ættleifðum sínum; en sjálfs síns frændum var hann þó grimmastr, er hann rak konunga alla á brot af Uplǫndum, ok var þat þó vel sums kostar, þvíat þeir hǫfðu áðr brugðit trú sinni ok svardǫgum við Knút konung, en fylgt þessum Óláfi at hverju óráði, er hann tók upp. Nú sleit þeira vináttu makliga; hann veitti þeim meizlur,

---

1. saman komit | mikit fjǫlmenni: *omv. S;* liþ mikit *skr. J2.* 1—2. í—landi: *efter* kostr, *hvortil der föjes:* vera *S;* fatæka *skr. J2, S.* 2. sjá: hør *tf. S.* 2—3. her innlenzkan: *omv. J2;* herl. *skr. S.* 3. í hald: at halldi *J2, S.* 4. fjǫlmennis: *ul. J2;* ok fiolmen*ne* *S.* œrin: yfrin *J2.* 5. eigi—láta: *ul. J2.* 6. þegar *ul. J2.* ræna: yðr *tf. S.* 7. snøri: kom *J2.* 8. hóf—hann: *ul. J2.* 9. þeim: við þa menn *J2.* er: sem *S.* menn: *ul. J2, S.* ok ríkastir: *ul. J2;* fyrst *tf. S.* 10—11. Knúti—ok: *ul. J2.* 10. ok: er *S.* eru skyldastir: skylld*ir* *erv S.* 11. hann: *ul. S.* -land hans: -laɒnd Knuts konungs *J2.* 11—12. Slíkt—-kgi: *ul. J2.* 12. Óláfi: *ul. S.* 12—13. jarlana—Hákon | rak—sínum: *omv. J2, ul.* hann *og skr.* i brott (ibravt *S*). 14. síns: *sål. alle.* 14—19. er—makliga: *ul. J2.* 15. kga alla: *omv. S.* á brot: bravt *S.* ok: *ul. S.* 16. sums kostar: fyr*ir* sums sak*ir* *S.* 17. ok svardǫgum | við—kg: *omv. S.* 17—18. þessum Ól.: *omv. S.* 18. er: sem *S.* 19. hann veitti: *omv. J2.*

en tók undir sik ríki þeira, eyddi svá í landinu ǫllum tígnum mǫnnum. En síðan munuð þér vita, hvernug hann hefir búit við lenda menn, drepnir eru inir ágæztu, en margir orðnir landflótta fyrir honum. Hann hefir ok víða farit um land þetta með ráns-flokkum, brent heruðin, en drepit ok rænt fólkit; eða
O 213 hverr er sá hér ríkis-manna, er eigi myni honum eiga at hefna stórsaka? Nú ferr hann með útlendan her, ok er þat flest marka-menn ok stíga-menn eða aðrir ráns-menn; ætlið þér hann nú munu yðr linan, er hann ferr með þetta illþýði, er hann gerði þá slík hervirki, er allir lǫttu hann, þeir er honum fylgðu? Kalla ek hitt ráð, at ér minnizk nú orða Knúts konungs, hvat hann réð yðr, ef Óláfr leitaði enn aptr til landz, hvernug ér skylduð halda frelsi yðru, því er Knútr konungr hét yðr. Hann bað yðr standa í mót
H 358 ok rekask af hǫndum óaldar-flokka slíka. Er nú sá

---

1. en—þeira: oc rac alla þa af eignom sinom en *J2*. undir sik | ríki þeira: *omv. S og tf.* ok. 1—2. í landinu . . . tígnum: *ul. S;* i landinu *efter* mǫnnum *J2*. 2. munuð—vita: vitvt *þer S*. hvernug: hvernig *J2;* hvernveg *S*. 3. við: yðr *tf. J2;* b. við *ulæsel. i S*. drepnir—inir: drep*it* hina *S*. 4. margir: sumir *J2, S*. orðnir landflótta: *omv. J2, S*. 5—8. Hann—stórsaka: *ul. J2*. 5. víða . . um—þetta: *efter* -flokkum *S*. 6. drepit ok: *ul. S*. fólkit: en sumt drep*it tf. S*. 7. ríkis-manna: lendra m*anna* eða rikra *S*. er*(2)*: at *S*. 8. útlendan: ut lendv*m S*. 9. flest: mest *J2*. ok*(2)*: eða *J2, S*. 9—10. aðrir ráns-menn: *ul. J2*. 10. ætlið: ætli *J2*. munu—linan: linan v*er*a mvnv v*ið* yðr *S*. 11. þetta illþýði: *omv. J2*. slík: slikt *J2, S*. 12. her-: ill- *S*. þeir—fylgðu: *ul. J2;* *þeir* sem f*orv* m*eð* hon*v*m *S*. 13. ek: nu *tf. J2*. hitt: *ul. S*. ér: *sål. J2;* þer *de øvrr.* = *l. 15*. nú: *ul. J2, S*. 14. leitaði enn: konvngr kǫmi *J2; herefter er nogle ord ulæsel. i S*. 14—15. til landz: i land *J2*. 15. hvernug: at *J2*. 15—16. halda—yðr*(2)*: *ul. J2*. 15. er: sem *S*. 16. standa í mót: moti standa *S*. 17. rekask: reka *J2, S*.

til, at fara móti þeim ok drepa niðr illþýði þetta fyrir ǫrn ok úlf, ok láta þar liggja hvern, sem hǫggvinn er, nema þér vilið heldr draga hræ þeira í holt ok hreysi; verði engi svá djarfr, at þá flyti til kirkna, þvíat þat eru alt víkingar ok illgǫrða-menn«. En er hann hætti tǫlu þessi, þá gerðu menn at róm mikinn, ok guldu allir jákvæði til, at gera sem hann mælti.

## K. 219. Frá lendum mǫnnum.

*[ÓH (Fms.) k. 205, (Flat.) k. 281; jfr. ÓH (49) k. 89.]*

Lendir menn, þeir er þar váru saman komnir, 1030
áttu stefnu ok tal sitt ok rœðu ok skipuðu þá til, hversu fylkja skyldi eða hverr hǫfðingi skyldi vera fyrir liðinu. Þá mælti Kálfr Árnason, at Hárekr ór U 485
Þjóttu væri bezt til feldr at gerask hǫfuðs-maðr fyrir her þessum — »þvíat hann er kominn af ætt Haraldz ins hárfagra; hefir konungr á honum allþungan hug fyrir sakir vígs Grankels, ok mun hann sitja fyrir inum mestum afarkostum, ef Óláfr kømsk til ríkis; er Hárekr reyndr mjǫk í orrostum ok maðr metnaðargjarn«. Hárekr svarar, at þeir menn væri til þess betr fallnir, er þá váru á léttasta aldri — »en ek em nú, segir hann, maðr gamall ok hrumr, ok ekki vel til orrostu fœrr; er ok frændsemi með okr Óláfi

---

1. móti: i mot *J2;* i moti *S.* illþýði þetta: *omv. J2.* 2. ǫrn . . úlf: *omv. J2.* láta: lati *J2.* liggja hvern: *omv. J2.* 2—3. hǫggvinn: drepinn *S.* 3—4. nema- hreysi: *ul. J2.* 4. flyti: fǫri *J2* 5. alt: *ul. J2.* víkingar: *med* viki- *slutter S.* illgǫrða-: rans- *J2.* 6. þessi: sinne *J2.* þá: *ul. J2.* at—mikinn: micinn rom at mali hans *J2.* 7. guldu—til: iaðu allir *J2.* 8. *Overskr. fra 18, J2; mgl. K, 70.* 9. saman: *ul. J2.* 10—11. tal—hversu: ætluðu um hvernig *J2.* 11. skyldi vera: *omv. J2.* 12—13. Þá—-maðr: Kalfr mælti þat er bezt fallit at Harekr or þiottu geriz hæfþinge *J2.* 16—19. ok—-gjarn: *ul. J2.* 19—20. svarar—fallnir: q: þa menn betr til slics fallna *J2.* 20—21. en—hann: em ec nu *J2.* 21—22. ok(*2*)—ok: enn *J2.* 22. frændsemi: micil *tf. J2.*

konungi; en þótt hann virði lítils þat við mik, þá samir mér þó eigi at ganga framarr í þenna ófrið móti honum, en einn hverr annarra í várum flokki. Ertú, Þórir, vel til fallinn at vera hǫfuðs-maðr at halda bardaga við Óláf konung; eru þar ok œrnar sakir til; bæði áttu honum at hefna frænda-láts ok
H 359 þess, er hann rak þik útlaga af eignum þínum ǫllum; hefir þú ok því heitit Knúti konungi ok svá frændum þínum, at hefna Ásbjarnar; eða ætlar þú, at betra fœri myni gefask við Óláf, en svá sem nú er, at hefna þeirar svívirðingar allrar saman?«. Þórir svarar máli hans: »ekki ber ek traust til at bera merki í móti Óláfi konungi eða gerask hǫfðingi fyrir liði þessu. Hafa Þrœndir hér mannmúg mestan; kann ek stórlæti þeira, at þeir munu ekki mér vilja hlýða eða ǫðrum háleyskum manni. En ekki mun þurfa at minna mik á sakar þær, er ek á at gjalda Óláfi; man ek þat mannlát, er Óláfr hefir af lífi tekit iiii. menn ok alla gǫfga at metorðum ok at kynferðum, Ásbjǫrn bróðurson minn, Þóri ok Grjótgarð, systursonu mína. ok fǫður þeira Ǫlvi, ok em ek hvers þeira skyldr at hefna. Nú er þat frá mér at segja, at ek hefi valit
O 214 til af húskǫrlum mínum menn xi., þá er snarpastir eru, ok ætla ek þat, at vér skylim ekki við aðra meta

1. en þótt: þo at *J2.* lítils þat: *omv. J2.* 1—3. þá—flokki: *ul. J2.* 4—6. vera—-láts: muna nu konunge frændalat *J2.* 7. þess: þat *J2.* útlaga: *ul. J2.* 8. ok*(1)*: *ul. J2.* 9. at*(1)*: þu scylldir *tf. J2.* 9—11. eða—saman: frænda þins *J2*, *hvorpå nyt kap. med overskr.*: Orðtac þoris Hundz. 11—12. máli hans: *ul. J2.* 12. ekki: æigi *J2.* bera: reisa *J2.* móti: mot *J2.* 14—16. Hafa—manni: *ul. J2.* 16—17. þurfa--Óláfi: mic a sakar minna þurfa við Olaf konung *J2;* sakir *skr. K*, *18*, *70.* 17—22. man—hefna: *ul. J2.* 23. til: *ul. J2.* menn xi.: *omv. J2.* 24. ok . . þat: *ul. J2.* skylim: munum þat *J2.*

at skipta hǫggum við Óláf, ef vér komumk í fœri um þat«.

## K. 220. Tala Kálfs Árnasonar. U 486

*[ÓH (Fms.) k. 206, (Flat.) k. 282.]*

Kálfr Árnason tók þá til máls: »þess munum vér 1030
þurfa um ráð þat, er vér hǫfum upp tekit, at gera þat eigi at hégóma-máli, er herrinn er saman kominn. Munu vér annars þurfa, ef vér skolum halda orrostu við Óláf konung, en þess, at hverr fœri sik undan at taka upp vandann, þvíat svá megum vér til ætla, þó at Óláfr hafi eigi lið mikit hjá her þeim, er vér hǫfum, þá er þar øruggr oddvitinn, ok mun alt lið hans vera honum tryggt til fylgðar. En ef vér erum H 360
nú nǫkkut skelfir, er helzt skolum vera forstjórar liðs várs, ok viljum vér eigi treysta herinn ok eggja ok veita fyrirgǫngu, þá mun þegar fjǫlði hersins þat, er stall mun hjarta drepa ok því næst hverr sér ráðs leita. En þótt hér sé herr mikill saman kominn, þá munu vér þó koma í þá raun, ef vér hittumk ok Óláfr konungr með her sinn, at oss er ósigrinn víss,

---

1–2. skipta—þat: bera vapn a Olaf konung *J2.* 3. *Overskr. fra 18, J2, der dog ul.* Árnas; *mgl. K, 70.* 4. máls: oc segir sva *tf. J2.* 4—6. þess—kominn: *ul. J2.* 7. Munu vér | annars: *omv. J2 og skr.* munom. vér*(2)*—halda: hallda skal *J2.* 8. þess, at: *ul. J2.* 9. at—vandann: ǫllom vandanom *J2.* 10. Óláfr: konungr *tf. J2.* eigi—þeim: litinn her hia liþe þvi *J2.* 11—12. ok—fylgðar: *ul. J2.* 12–13. erum—skelfir: æðrumz nu *J2.* 13—15. skolum—fyrirgǫngu: scylldom fyrir vera herinom *J2;* fyrirgǫngu *skr. ÓH (53);* fyr atgongu *K (18, 70, næppe rigtigt).* 15. þegar: þat allr *J2.* hersins þat: vaʀa manna *J2.* er: at *J2.* 16. hjarta drepa: *omv. J2 (*dr. i hj. *J3).* því næst: *ul. J2.* 16–17. hverr—ráðs | leita: *omv. J2.* 17. En þótt: Nu þo at *J2.* herr mikill: *omv. J2.* 18. þó: *ul. J2.* 18—19. hittumk—sinn: hittum Olaf með sitt liþ *J2.* 19. ósigrinn víss: raþinn usigrinn *J2.*

nema vér sém skéleggir sjálfir ráða-menninir, en múgrinn geysisk fram með einu samþykki. En ef eigi verðr svá, þá er oss betra at hætta eigi til bardaga, ok mun þá sá kostr auðsær þykkja, at hætta til miskunnar Óláfs, ef hann þótti þá harðr, er minni váru sakir til, en nú mun honum þykkja. En þó veit ek, at svá er mǫnnum skipat í liði hans, at mér mun þar griða kostr, ef ek vil þess leita. Nú ef þér vilið sem ek, þá skaltu, Þórir mágr, ok þú, Hárekr, ganga undir merki þat, er vér skolum allir upp reisa, ok fylgja síðan. Gerumk vér allir snarpir ok skéleggir í þessum ráðum, er vér hǫfum upp tekit, ok hǫldum svá fram bónda-herinum, at þeir megi eigi finna á oss æðru; ok mun þat alþýðuna fram eggja, ef vér gǫngum glaðir til at fylkja ok eggja liðit«. En er Kálfr hafði lokit at tala ørendi sitt, þá vikusk allir vel undir rœðu hans ok segja, at þeir vildu þat alt hafa, sem Kálfr sæi ráð fyrir þeim; vildu þat þá allir, at Kálfr væri hǫfðingi fyrir liðinu ok skipaði þar hverjum í sveit, sem hann vildi.

U 487 H 361 **K. 221.** Frá merkis-burði lendra manna.
*[ÓH (Fms.) k. 207, (Flat.) k. 283; jfr. ÓH (49) k. 89, 90.]*

1030 Kálfr setti upp merki ok skipaði þar húskǫrlum

1. nema—sjálfir: ef ver erum nu æigi*(!)* skelegir *J2.* ráða-: raðz *J2.* 1—2. en—samþykki: *ul. J2.* 2—3. En—oss: oc er os þa *J2.* 3. eigi—bardaga: a enga orosto við Olaf konung *J2.* 4. þá: þo *J2.* sá kostr | auðs. þykkja: *omv. J2.* 5. Óláfs: við Olaf konung *J2.* 5—8. ef—leita: *ul. J2.* 9. mágr . . þú: *ul. J2.* 10. þat: þvi *70 (ur.).* 11—12. Gerumk—tekit: *ul. J2.* 13. megi—finna: finne enga *J2.* 13—14. á oss | æðru: *omv. J2.* 14—15. ok—liðit: *ul. J2.* 16. at—sitt: ǫrendi sino *J2.* 16—17. vikusk—segja: sagðo allir *J2.* 17. vildu þat: villde *J2.* 18. sem: er *J2.* ráð . . þeim: *ul. J2.* þat þá: *ul. J2.* 21. *Overskr. fra 18; mgl. K. 70;* fra fylkingom bonda *J2.* 22. Kálfr: Arnas. *tf. J2.* upp merki: þa merki up *J2.* 22—482$_1$. húskǫrlum sínum | undir: *omv. J2 og ul.* merkit.

sínum undir merkit ok þar með Háreki ór Þjóttu ok hans liði. Þórir hundr með sína sveit var í ǫndurðu brjósti fylkingar fyrir merkjum; þar var ok valit lið af bóndum á tvær hliðar Þóri, þat sem snarpast var ok bazt vápnat. Var sú fylking gǫr bæði lǫng ok þykk, ok váru þar í fylkingu Þrœndir ok Háleygir; en inn hœgra veg frá fylkingunni var ǫnnur fylking; en til vinstri handar frá aðalfylkingu hǫfðu þeir fylking Rygir ok Hǫrðar, Sygnir, Firðir, ok hǫfðu þar it iii. merki.

### K. 222. Frá Þorsteini knarrarsmið.

*[ÓH (Fms.) k. 208, (Flat.) k. 283; ÓH (49) k. 90, 91, 93.]*

Þorsteinn knarrarsmiðr er maðr nefndr; hann var kaupmaðr ok smiðr mikill, maðr mikill ok sterkr, kaps-maðr mikill um alla hluti, víga-maðr mikill. 0 215
Hann hafði orðit ósáttr við konung, ok hafði konungr tekit af honum kaupskip nýtt ok mikit, er Þorsteinn hafði gǫrt. Var þat fyrir óspekðir Þorsteins ok þegngildi, er konungr átti. Þorsteinn var þar í hernum; hann gekk fyrir framan fylking ok þar til, er stóð

---

2. með—sveit: *efter* merkjum (merkino) *J2.* ǫndurðu: ændverþu *J2.* 3. merkjum: merkino *J2.* þar: þa *J2.* 4. Þóri: honum *J2.* 4—5. þat—vápnat: *ul. J2;* bazt *skr. 70;* bezt *K.* 5. gǫr: *ul. J2.* 6. ok(1)—Háleygir: *ul. J2.* 7. inn: a *J2.* fylking: sett *tf. J2.* 8. -fylkingu: *med art. J2.* þeir: *ul. J2.* 9. ok(1): *ul. J2.* Sygnir, Firðir: *omv. J2.* ok(2): *ul. J2.* þar: þeir *J2.* 11. *Overskr. fra 18; mgl. K, 70;* fra orðum þorsteins *J2.* 13. kaupmaðr . . smiðr mikill: *omv. J2.* maðr—ok(2): *ul. J2.* sterkr: ok *tf. J2.* 15. við: Olaf *tf. J2.* 16. af: fyrir *J2.* nýtt—mikit: *ul. J2.* Þorsteinn: hann *J2.* 17. óspekðir: ospect *J2.* Þorsteins: *ul. J2.* 18. þar: *ul. J2.* hernum: herinom *J2.* 19. hann: oc *J2.* fyrir—ok: *ul. J2.* stóð: var *J2.*

Þórir hundr; hann mælti svá: »hér vil ek í sveit vera, Þórir, með yðr, þvíat ek ætla, ef vit Óláfr hittumk, at bera fyrstr vápn á hann, ef ek má svá
H 362 nær verða staddr, ok gjalda honum skiptǫkuna, er hann rænti mik skipi því, er eitt er bezt haft í kaupferðum«. Þeir Þórir tóku við Þorsteini, ok gekk hann í sveit með þeim.

## K. 223. Frá liðskipan bónda.

*[ÓH (Fms.) k. 209, (Flat.) k. 284.]*

1030 En er skipat var til fylkingar bóanda, þá tǫluðu lendir menn ok báðu liðsmenn gefa gaum at um stǫður sínar, hvar hverjum var skipat eða undir hverju merki þá skyldi hverr vera eða hvert frá merkinu eða hversu nær honum var skipat merkinu.
U 488 Báðu þeir menn vera þá vakra ok skjóta at ganga í fylking, er lúðrar kvæði við ok herblástr kœmi upp, ok ganga þá fram í fylking, þvíat þeir áttu þá enn leið mjǫk langa at flytja herinn, ok var þess ván, at fylkingar mundu bregðask í hergǫngunni. Síðan eggjuðu þeir liðit; mælti Kálfr, at allir þeir menn, er

---

1. hann: oc *J2.* svá: *ul. J2.* 1—2. í sveit | vera: *omv. J2 og ul.* Þórir. 3. hittumk: konungr finnumz *J2.* fyrstr: manna *tf. J2.* 3—4. svá—staddr: *ul. J2.* 4. -tǫkuna: taco *J2.* 4—6. er—kaupferðum: *ul. J2.* 6. Þórir tóku: taka *J2.* 8. *Overskr. fra 18; mgl. K, 70;* fra *(ul. J3)* Eɢian bonda *J2.* 9. til: um *tf. J2, (*um lið ok *tf. 18; et af J. Eggertssons vilkårlige tillæg).* fylkingar: fylking *J2.* bóanda: *sål. J2;* bonda *K.* þá: *ul. J2.* 10—11. um—sínar: *ul. J2.* 12. þá: *ul. J2.* skyldi hverr: *omv. J2.* vera: standa *J2.* 12—13. eða—merkinu*(2)*: *ul. J2.* 14. þá—ok: *ul. J2.* 14—15. í fylking: undir merki *J2.* 15—16. er—fylking: *sål. ÓH (53); mgl. K, 18, 70 (overspr. i K-mbr.);* þegar við kvæði luðrar *J2.* 16—18. þvíat—hergǫngunni: *ul. J2.*

harma ok heiptir áttu at gjalda Óláfi konungi, skyldu þá fram ganga undir þau merki, er fara skyldu í móti merki Óláfs, vera þá minnigir þeira meingǫrða, er hann hafði þeim veitt, segir, at þeir mundu eigi komask í betra fœri at hefna harma sinna ok frelsa sik svá frá þeiri ánauð ok þrældóm, er hann hafði þá undir lagt — »er nú sá, segir hann, bleyðimaðr, er eigi bersk nú sem djarfligast, þvíat eigi er saklaust við þá, er í móti yðr eru; munu þeir eigi yðr spara, ef þeir komask í fœri«. At máli hans varð allmikill rómr; varð þá kall mikit ok eggjan um allan herinn.

**K. 224.** Frá her konungs ok bónda. H 363

*[ÓH (Fms.) k. 210, (Flat.) k. 284.]*

Síðan fluttu bœndr her sinn til Stiklarstaða. Þar 1030
var Óláfr konungr fyrir með sitt lið. Fór í ǫndurðu liðinu Kálfr ok Hárekr fram með merkinu. En er þeir mœttusk, þá tóksk eigi allskjótt árásin, þvíat bœndr frestuðu atgǫngu fyrir þá sǫk, at lið þeira fór hvergi nær alt jafnfram, ok biðu þeir þess liðs, er síðarr fór. Þórir hundr hafði farit síðarst með sína sveit, þvíat hann skyldi til gæta, at ekki slœgisk aptr

1. ok—áttu: sinna ættu *J2.* gjalda—kgi: reka við Olaf konung *J2.* 2. fram: *ul. J2.* 2—3. í móti: mot *J2.* 3. Óláfs: konungs *tf. J2.* 3—7. vera—lagt: *ul. J2.* 7. er—sá: veri sa nu *J2.* 8. nú: *ul. J2.* 8—10. þvíat—fœri: *ul. J2.* 10. all-: *ul. J2.* 11. varð: var *J2 (J3 = K).* ok eggjan: oc aegian *efter* herinn *J2.* 12. *Overskr. fra 18; mgl. K, 70;* orðtac *J2.* 13. Stiklar-: Sticla- *K.* 14. Ól. kgr | fyrir: *omv. J2.* sitt lið: sino liþe *J2 (sål. også K ved en af de falske rettelser fra forr. årh.).* -urðu: -verþu *J2.* 15. Kálfr: Arnason *tf. J2.* 16. þá: *ul. J2.* allskjótt árásin: atlagan sva sciott *J2.* 17. frestuðu—fór: foru *J2.* 18. alt: *ul. J2.* 19. farit síðarst: *omv. J2.* 20. ekki: æigi *J2 (J3 = K).*

